# HUSS-POSTILLA/
## EDUR
## EINFALLDAR
# PREDIK-
# ANER

Yfer øll Hatijda og Suñudaga Gudspiøll

Giørdar

Af

Vel-Edla og Vel-Eruverdugum Sal: Byskupenum
Yfer Skalholts Stifte/

MAG: JONE THORKELS-SYNE
VIDALIN.



Añar Parturen/

Fra Trinitatis Suñudeige til Adventu.

EDITIO II.

Prentud a Hoolum i Hialltadal/ Af Marteine Arnoddssyne/
Ano 1726.

# A Trinitatis Hątijd.

Gudspialled/ Joh. 3. Cap.

J Þañ Tijma/ Var þar eirn Madur af Phariseunum/ Nicodemus ad Nafne/ eirn Hofdinge Gydinga. Hañ kom til JEsu a Næettarþele og sagde til hañs: Rabbi/ Vier vitum ad þu ert eirn Læremeistare komeñ af Gude/ þvi eingeñ gietur giert þau Teikn sem þu gioerer/ utañ Gud sie med honum. JEsus svarade og sagde til hañs. Sañlega/ Sañlega seige eg þier/ þad eingeñ nema hañ/ sæ ed fædest ad nyiu/ fær ad sia GUds Rijke. Nicodemus sagde til hañs. Hvorneñ mæ Madureñ Endurfædast þa hañ er gamall? Hvort gietur hañ horfed aptur i siñar Moodur Kvid/ og fædst so ad nyiu? JEsus svarade: Sañlega/ Sañlega seige eg þier/ nema þad nockur verde Endurfæddur wt af Vatne og Anda/ þa kañ hañ ecke iñ ad gæanga i Guds Rijke. Hvad af Hollde er fædt/ þad er Holld. Eñ hvad af Andanum er fædt/ þad er Ande. Vndrast þu ecke/ad eg sagde þier/ ad ydur byriar ad fædast ad nyiu. Vindureñ blæs hvar er hañ vill/ og þu heyrer hañs Þyt/ eñ eige veitst þu hvadañ hañ kiemur/eda hvort hañ fer. So er og sierhvor af Andanum fæddur. Nicodemus svarade og sagde til hañs: Hvorneñ mæ þetta ske? JEsus svarade honum/ og sagde: Ertu eirn Meistare i Jsrael/ og veitst ecke þetta? Sañlega/ Sañlega seige eg þier/ad vier seigium þad vier vitum/og vitnum hvad vier sied hofum/ og vorn Vitnisburd medtaked þier ecke. Hafe eg sagt ydur Jardneska Hlute/og þier trwed ecke/ Hvorneñ munud þier þa trwa/ ef eg segda ydur Himneska Hlute? Eingeñ uppstijgur til Himens/ utañ sæ sem ofañ stie af Himne/ Mañsins Sonur/ sæ sem er a Himne. Og so sem Moyses upphoof Hoggormeñ a Eydemorkeñe/ Lyka so byr-

lat Mañsins Syne upp ad hefiast/ so ad aller þeir sem a hañ trwa/ Fortapest eige/ helldur ad þeir hafe eilijft Lijf.

# Exordium.

Mikil var Blindne Heidingiaña fordum Daga i Guds Þeckingu/ Hiner Vijsustu af þeim sogdu/ ad eitt miked Ryke kuñe ecke leinge ad standa fyrer utañ Einvallds-Dæme/ þo skøpudu þeir sier Otal Gude til ad stiorna allre Verolldeñe/ svo sem eiñ være ecke fær um̃ ad rada fyrer þvi/ er þeir þo af Náttúruñar Lioose peckia mattu / ad hañ sialfur skapad hefde / og svo ad þeir a einhvern Hátt feingu smijdad sier Einvallds-Dæme i Heimenum/ þa trwdu þeir/ad eiñ være þeirra mestur sa ed ødrum stiornade/ mætte þo slijkt ad vera epter Mañligum Plagsid / svo ad hañ þurfte fra vid a stundum/ eins og Agamemnon siña Under-Konunga/ þott hañ hiete hia Griekiũ Konungaña Konungur. Þegar eg athuga þetta/ þa kiemur mier i Hug þad sem Paulus skrifar/ 1. Cor. 3. Ad Speke Veralldar þessarar sie Heimska hia Gude/og under eins kveikur mitt Hiarta i mier af Elskuñe til mijns Skapara/ ad hañ hefur Opinberad oss sijnum Vesælingũ/ þad sem huled var fyrer Spekingum og Vitringum/þar vier trwum a eiñ Gud Þreñañ i Eiñingu og Einañ i Þreñingu/ hver ed einkis vid þarf/ eñ aller hañs/og er Sialfrade allra Hluta/ bæde a Himne og Jordu/svo sem David seiger i Psalm. 115. Vor Gud er a Himnum / og giører hvad hønum lijkar. Þessarar hæleitu Guddoomsins Þreñingar Veglega Hátijd eigum vier nu i Dag ad hallda / a hvørre oss verdur Predikad þad Evangelium sem innebindur þa hellstu Velgiørninga er Fader/ Sonur og heilagur Ande hafa veitt oss syndugum Møñum til Myskunar/ þad er Endurgiefningeñ og Endurlausneñ/ af hveriũ allt ofiad hanger sem hiñ Naaduge Gud vill lata oss þioona til Saluhialpar. Um̃ sialfa Hlutena hefe eg adur i þessare Book ofgda talad/Eñ þad er merkelegt

i þessu Gudspialle/ ad hier kiemur eiñ Høfdinge Gydinga/ eiñ Meist-are i Israel til ad læra þessa Himnesku Fræde af honum sem til þess var sendur wr Fødursins Skaute/ ad Openbera hana synduguñ Møñ-um. Þui viliū vier nu hier af athuga eiñ froomañ eñ þo fávijsañ Læresvein / og under eins eiñ goodañ og svo Alvijsañ Meistara/ med þeim Lærdoomum er þeirra Samtal med sier færer.

Styrk oss til þessa Verks goode Gud med Naad þijns Anda / fyr-er Sonarens Forþienustu / A M E N.

## Vtleggingeñ.

ÞAR Var EIñ MADur Af PHArisæunum seger Textiñ: Hvilijkañ Vitnisburd DRotteñ gefur þessū Flock mā allvijda sia i Gudspiallamañaña Bookū / og þo ecke skiøst hia Matth. 23. Cap. Hvar hañ medal añars kallar þa Eytur-Orma og Nødru-Kyn/ þo fanst þesse Gudhrædde Madur medal þeirra/ Þad Ord stend-ur stødugt um̄ Æfe/ ad þecker Gud þa sem hañs eru/ seger Postuleñ.

Lær þad af þessa gooda Mañs Dæme/ christeñ Madur/ ad ei same-leger þu þig vondre Verolldu þessare/ þoo't þu hliooter i heñe ad lifa. Þar var þo eiñ Abraham i Gerar/ eiñ Loth i Sodooma/ eiñ Hobadia i Achabs Hwse / eiñ Simeon / eiñ Zacharias / þesse Nicodemus og Joseph af Arimathia a Christi Døgum / hverier hiner skilldustu tveir ecke sambrecktust Gydingū i Lijflaate DRottens/ Luc. 23. Svo vared ydur og/ Born min/ þier sem lifed i hreckvijsre Olld þessarre medal vor/ eñ vilied þo DRotteñ Ottast/ ad ecke draged þier Ok med heñe / svo þier ei medtaked af heñar Plaagum / helldur skijned svo sem Lioos i Myrkvū Stad a medal þessarar Prettvijsu Kyn-Sloodar/ og treysted þui ad sw Alvolduga Bæn er Frelsareñ beidde fyrer sijnū Læresvein-um/ hun nær og til ydar/ ef þier Ottest Gud/ þar hañ sagde: Joh. 17. Eg bid þig Fader/ ecke ad þu taker þa burt wr Heimenū/ helldur ad þu vardveiter þa þ hinū vonda. Sioreñ er salltur/ eñ Fiskarner sem

þar

þar inne lyþa/ þr eru þo ecke saller. Svo eiga Guds Born ad vakta sig fyrer Spillingu þeirre sem i Heimenum er aþ Gyrndeñe / svo sem Petur ad Orde kiemst/ þoott þau verde ad synda i giegnū þeña fwla Dam̄ / a medañ Gud vill reyna þau med þvi ad horþa uppa alla þa Ohæþu sem þar iñe frameñ verdur. þesse Madur var eiñ Hoþdinge Gydinga / eñ Eþa eiñ aþ þm̄ 70. Wildungū þss mikla Raads/ samt var honū svo miøg gieþed um̄ Velþerd Sælar siñar/ ad hñ þookt ei ecke Oþ-goodur til ad læra aþ JEsu/ hvern hañs Lagsmeñ kolludu Vyn-Svelg / Vin Tollheimtumaña og Bersyndugra. Hvad giora þeir hier a moot er sig kalla Hoþdingia medal vor? Og eru þo Vesælingar ad reikna hia Nicodemo/ Eg voga ad seigia/ þeir vita ecke sumer hvad þr eiga ad trwa / Fradeñ haþa þeir lært ad søñu/ eñ eg þecke þa sem ecke skilia ølluㅡmeir i þm̄ helldur eñ Giellдingur Drottningareñar Candoces i Spaadoome Esajæ/ eñ hvert þr eru svo Leide lomer til ad læta sier Vnderviisa svo sem hañ var / þegar Philippus til hañs kom / Act. 8. þad bid eg þa ad Hugleida sem jaþnvel hafa slyna Sælusorgara fyrer Heilsusamlegar Kieñingar / og þoott sumer aþ þeim meige vita ad nockru Leite / hvad þr eiga ad trwa og giøra/ þa meiga þeir þo ecke Sañle-kañ heyra aþ Prestsens Muñe Reidelaust: Medañ hñ þeiger yfer Lyiū þra og Skøm̄um/ þa er hñ Guds Engell· eñ tale hañ um̄ nockra Ohlutvendne/ þa sturlar hñ Israel eins og Elias / 1. Reg. 18. Hañ skytst under Caldæos eins og Jeremias/ Jer. 37. og verdur allt til Saka funded/ Gud betre þssa Tyma/ Taled þad sem oss er þocknanligt søgdu Judar fordum / sw Olld er apturkomeñ/ Spaadoomur St. Paals er ræfftur/ þeir samañ hrwga sier Lærendum epter þvi sem Eyrun klæia / Meñ læta svo dælt ad Løstū sinum eins og Mooder ad einasta Syne / jaþnvel þoott þr sieu bæde marger og lioter/ Meñ elska siñ eigeñ þreck eins og Siaaldur Auga sins/ svo eru Meñ viðkvæmer nær hañ snertur er / svo sem væru þad Saar/ og ad mestu Leite eru vorer Hoþdingiar svo lynder eins og Joa-

 chim

chim Konungur/ þa hans Pienare Judi hafde lesed honum þriu eda fiogur Blod af Spaadoome Jeremiæ/ þa skar hann Bookena i sundur z kastade henne i Elldenn/ Jer. 36. Eg ætla þa einu gylldte þoott allar Bækur være brendar sem hlioda umm Guds Otta / og aller Mannar tilbyrgder sem þar umm tala.

Nicodemus kom til JEsum a Nætttar-Þelenn Efa fyrer Otta saker eins og Joseph af Arimathia/ er var heimugligur Christi Lærisveinn sokum Hrædslu vid Gydinga/ Joh. 19. Veikleike fannst nockur hia þessum goodu Mønnum i slyku/og þo var þad Upphaf til þeirra Hialprædis/ Enn þu sem eingann þarfst ad Ottast i þui ad fylgia Christo epter/ Tak þier Dæme af Nicodemo i þui ad villa læra af honum / og þeim sem hann hefur i sinn Stad sett/enn ecke i þui ad fordast Verølldena ad slyku/Þad er audræded af Samtale Drottens vid hann/ad hann hefur ecke vered miøg Froodur i Christendoomenum/ þegar hann fyrst kom/enn ecke varde þad leinge/þar til hann vogade ad forsvara Christum berlega i Rædenu/ er hann sagde: Dæmer nockud vort Løgmaal Mann enn nema hann sie ædur heyrdur/ Joh. 7. og mætte heyra þar fyrer: Ert þu og vordenn Galilæus? sem var hin mesta Smæn medal Gydinga. Þad mætte sijnast ad ůle være med Christ/ þegar hann var svo sem Illrædis-Madur til Dauda dæmdur og a Galgann uppfestur/ hvar hann liet sitt saklausa Lijf/Ecke er Lijklegt ad þeir Joseph mune hafa vered Froodare umm Upprisuna helldur enn Læresveinarner/ samt vogudu þeir ad Grefftra hann / og vordu þar til Femunum sijnum. Svo er Gud kroptugur i goodum Vilia/ þoott Veikur sie/enn þu sem vordenn ert Sannfroodur umm Dijrd Drottens i hans Upprisu/ og veitst ad hann situr til Kraptarens hægre Handar. Breyt epter Nicodemo i þessu/og læt þier einkis Mææl svo skylldt vera/ad þu aftrækest riett ad giøra/ Læt einga Verallдar Magt svo ofbiooda þier / ad þu i missta mæta skierder Dijrd þyns Guds i þui ad fremia þad epter Mannanna Bode sem hann bannad hefur. O hversu Fæviser og Onyter eru aller

þeir

þeir ed kalla sig Ohulta nær þeir giøra allt hvad hinn Vollduge bijdur þeim/ Heyre þeir hvad Drottenn seger fyrer Munn Zophoniæ/ Cap. 1. Eg skal a þeim Dege straffa alla þa sem stockva yfer Þrøskullda / hverier ed uppfylla Hws Drottins sinna med Rane og Svikum. Sama er umm allt annad ad segia sem nockur Oþrijkes Madur bijdur a moote Guds Bode/ hvert hann er hærre eda lægre Stiettar/ þannig var nu Nicodemo hættad sem adur er sagt þa hann kom til Jesum / enn hvert Eyrended vered hafe er audsært af Lausnarans Andsvare / þo ecke stande hans Spurning utþryckelega i Gudspiallenu / hann hefur an Efa viliad frædast af Drottne/ med hveriu moote hann kynne Guds Rijke ad erfa/ Enn DRottenn sem allt visse hvad med honum bioo/ hann svarar honum ecke eins og hinum Rijka Ynges-Manne / hia Matth. 19. er friette hann ad hvad hann giøra skyllde so hann mætte eignast eilijft Lijf/ hverium hann vijsade til Løgmalsens/ af hvers Verkum eingenn kann þo Hoolpenn ad verda/ Hvar fyrer? af þvi hann þocktest Løgmaled upp-fyllt hafa: Ecke svo sem Phariseis og Herodis Þienurum er komu til hans med vidlijkum Formala og Nicodemus/ enn þo fuller af Und-erhygiu og Flærdskap/ og spurdu ad/ hvert ad leyfdest ad giefa Key-soranum Skatt edur ei: Ecke svo sem Kennemønnunum og Ølldungunum er spurdu hann ad af hverium Myndugleika hann kiende / Matth. 21. DRottenn visse ad Nicodemus var i Løgmalenu noogu Froodur ad Gyd-inga Plagsid/ þvi hann var einn Meistare i Israel/ þar fyrer tefur hann ecke ad undervijsa honum i þvi sem honum var Aboota vant/ og opnar honum enar fyrstu Dyr Lijfsins Vegar/ sem er Endurfædingenn/ med þessum Ordum: NEma Ad EInnhver FÆDest Ad NYiu / Þa Kann Hann Ecke Ad Sia GUds Rijke. Hier af ma sia hversu megnt Fa-fræde ad drottnad hefur medal Gydinganna i Andlegum Efnum beg-ar Christur kom. Þad synest ad þeir hafe ecke beckt Uppruna Synd-innar / iafnvel þott þeir mættu lesa hia David Ps: 51. I Syndenne em eg alenn / og i Syndenne hitnade mijnne Moodur med mier: Ecke

Endur-

Endurfædinguna/edur ætlad ad Vm̃skurnen munde vera heñar Med
al af Gude tilskickad / helldur svo sem nockurskonar utvortis Teikn/
med hvertu Israels Foolk være adgreindt fra ødrum Þioodum / þar
þo Moyses seger þm̃ berlega/ Devt. 30. DRotteñ mun um̃skiera þitt
Hiarta og þÿns Sæðis Hiarta til ad elska DRotteñ Gud þiñ af øllu
Hiarta þÿnu/ og af allre Ondu þiñe svo ad þu lifer/ hvar ei kañ ad
vera añad meint eñ þad sem Paulus um̃talar/ Rom. 2. er hañ nefne
er Vm̃skurn Hiartans sem er i Andanum og ecke i Bookstafnũ/ hvers
ar Lofstÿr ecke er af Møñum helldur af Gude. Vr þessare Villu
vill nu DRotteñ fyrst hiælpa Nicodemo / og meigum vier christner
Meñ O' Daudlegar Þacker Gude kuña/ ecke einasta fyrer þad hañ
hefur Endurgiæted oss til eiñar lifande Vonar / sem Petur ad Orde
kiemst/ 1. Pet. 1. helldur og þad/ad hvert Barned a medal vor a Kost
a ad nema þa Himnesku Speke um̃ Endurgietninguna og heñar
Krapt sem þesse Hálærde Villdungur visse eckert af. Gud giæfe ad
bæde Kieñe-Fedur og Forelldrar hefdu svo mikla Astundan a ad bry-
na þvilÿkt fyrer sÿnum Børnum og hinũ Einfølldu / svo sem þad er
lioost i Guds heilaga Orde / þa mundu Meñ ecke svo óptlega flecka
sitt Skÿrnar-Klæde sem Meñ giøra / þa mundum vær hafa meira
Traust i Mootgangeñũ og i Freistingunũ/ af þvi ad vier erũ Christo
inplant-der z setter i hañs Rÿke z Kraptur Skÿrnareñar munde fram
ar auglÿsa sig i Endurnyungu Lÿfdagaña / og Deydingu Holldsens
helldur eñ almeñelega skiedur. Þad er merkelegt ad Endurlausn-
areñ brwkar þetta Ord/ AD FÆDast Ad NYiu. Skÿrneñ er ecke
neiñ Stundar-Þvottur er giøre Mañ hreinañ um̃ Siñ fyrer Gude/
helldur verdur hiñ Skÿrde nÿ Skiepna i Guds Auglite/ og þar fyre
er kallast þ Endurgietningar Laug / Tit. 3. hverrar Kraptur varer
um̃ allañ þess Allder/ er ecke afræker siñ Skÿrnar Sattmaala/ helld-
ur kostar Kapps um̃ ad endurnyia hañ med Betrun Lÿfernesens Dag-
legana. Sÿmed til/ Børn mÿn/ Madureñ fædest i Heimeñ daudur i

Vppruna

i Vppruna Syndeñe / Blindur i sijnum Sæluhiælpar Efnum/ þvi Holldlegur Madur skyniar ecke hvad Guds Anda er/ seger Paulus/ 1. Cor. 12. Er þ ecke þa ad fædast ad nyiu ad heilagur Ande i Skijrneñe upplijser Hugskoted/ endurskapar Viliañ/ og giefur oss nyiar Andlegar Sæfur/ ad vier fæum sied Guds Rijke/ þeckt þad i Trwñe/ samsiñt þvi er uṁ þad talad verdur/ ad vier leitum þess/ længar epter þvi/ og odlumst þad uṁ sijder / hvad Omøguligt er Hollde og Bloode/ svo sem Postuleñ vottar / 1. Cor. 15. Spekingarner segia ad Madureñ sie Madur fyrer Sælareñar Skulld / Þvi añars bere hañ eckert af Kvikindunū/ svo er hñ og Guds Madur alleina fyrer heilagañ Anda er vier i Skijrneñe medtøkum / añars er hañ ecke einasta Skynlaus/ helldur og daudur i Andligañ Mæta / Þvi er þetta Guds Verk riett kallad Endurfæding. I Añañ Mæta er oss kuñigt ad vier fædumst i Heim þeña Børn Reideñar/ sem Paulus skrifar/ Þañeg er vor Nætturleg Fæding/ eñ i Skijrneñe verduṁ vier Guds Børn/ þar verda oss fyrer alls eckert alleina fyrer JEsu Christi Forþienustu Syndernar fyrergiefnar/ eñ vier Riettlætter fyrer hñs Næd/ og til Arfs tekner med Guds Syne / Þvi svo wtmælar Paulus Endurfædinguna / Tit. 3. Seged mier/ er ecke slijkt ad nyiu fæddur ad vera? I þridia Mæta skiebindur og Skijrneñ i sier Avøxt Endurfædingareñar/ sem er Endurnyungen / hver ed Daglega a fram ad koma og i Vøxt ad fara/ fyrer hveria Madureñ Endurfæddur verdur ein ny Skiepna/ 2. Cor. 5. skapadur i Christo til goodra Verka i Skijrneñe / eñ Jklædest Daglega einū nyum Mañe sm̄ Endurnyiast epter hñs Mynd er hañ skapad hefur / og i þessu þreñu er Endurgiefningen foolgen hveria DRotteñ vill teiknad hafa med þvi Orde ad fædast ad nyiu. Þo skal eingeñ svo dærlegur vera / ad hañ meine ad þad noog sie/ ad færa Børneñ a Kyrkiuna/ og læta þau þar Vatne ausa/ og tala Guds Ord yfer/ eñ alldrei sijdañ vekia i þm̄ Krapt þessa Himneska Medals med Gudrækelegre Vppfrædingu. Þolanligra være ad kasta þeim

wt a Morkeña og læta uppeta af Vorgũ/ sm̃ þo er hiñ verste Glæp-
ur/ helldur eñ ad ala þad upp / sem Gud skapade i Moodur Life/ og
Endurskapade med heiløgum Anda i Skijrnar-Laugeñe/ Fiandanum
til þioonustu og hønũ i Bræd/ sem er Guds svareñ Ovinur. Vm̃-
skoreñ var Nicodemus/ Endurgieteñ var hñ epter þre Guds Skickan
sem varde allt til Christum / eñ þo var hañ svo Ofroodur um̃ sialfs
sijns Endurfædingu. Meinar þu ad Barne þijnu / sem kañ skie
alldrei fær ad heyra nema Fævitskuna / þvi mune betur farnast eñ
þessum lærda Mañe? Nema þu aler þad a hiñe hreinu og skynsam-
legu Mioolk Guds Orda/ sem Petur um̃ talar / 1. Pet. 2. ef þu ert
fær þar um̃/ og siert þu ecke/ sm̃ eg dylst ecke vid ad margur mune vera/
hvad Gud betre/ þa skamast þijn ecke ad gæanga med Nicodemo/ jafn
vel a Nættar-þele/ þad er heimuglega/ ef þu blygdast vid ad giøra
þad Openberlega/ þar þu ert gamall vordeñ / til Christi þienara edur
aññara sem betur vita / til ad læra Fræde þa er þu mætt ecke ann
vera/ svo þu fæer hoolped bæde þiñe og svo þeirra Sælum er þier er
til trwad/ nema þu vilter kveliast æsamt þeim i eilijfũ Helvijtis Loga/
sem Gud hafde boded þier med christeligre Vppfrædingu til Himna
Rijkis ad leida. Ecke fær Nicodemus þetta svo brædt skiled er
JEsus sagde honum/ og þvi talar hañ um̃ Holldlega Fædingu/ hønũ
þookte þ Vfgar ad Madureñ Skyllde Hverfa Aptur i Siñar Mood
ur Kvid Nær Hañ er Gamall/ Og Fædast Svo ad Nyiu. Eñ þoott
þad være svo længt fræ hañs þænka og yfergeinge hañs Skynseme
er JEsus talade / Samt forlætur hañ ecke DRotteñ ad helldur/ og
vill heyra meira hier um̃ talad. Olijkur var hñ þm̃ sem a vorũ Døg-
um ecke vilia læta sier i Guds Orde undervijsa / St. Pæls Spæ er
rætt a þeim er hañ seger/ 2. Timoth. 4. Ad þær Tijder mune koma/
ad þeir mune ecke lijda Heilsusamligañ Lærdoom/ þeir hlaupa i Felur
nær Fra Christeñ-Doom a ad rañsaka / þeir skioota Børnum sijnum
undañ nær þvilijkt skal um̃ Hønd hafa / þeir hæda ad Kieñendunum
nær

nær þeir i slÿku vilia giøra sitt Embætte / og hroosa þvi hver fyrer ødrum/ ad þeir a eiñhvern Hætt hafe getad slopped fra þvi ad læta Leidsegia sier til Himna Rÿkis. Þetta giøra nockrer af þm̃ a medal vor sem bæde eru skÿrder og gánga til Guds Bords/ þrisvar/ fioorum siñum a Are hveriu / eñ reidast Guds Þienara ef hañ vill ecke leifa þm̃ og Børnum fra/ ad eta og drecka Holld og Blood DRottens sier til Fordæmingar. Þu Vitfirringur / munt þu þa helldur vilia til Helvÿtis fara / og þar eilÿflega breña/ eñ ad lia Eyru þÿn Heilsusamligre Kieñingu / svo þu meger þiña Sæluhiælpar Medala verduglega nioota nde verda ? Edur villt þu leida þiñ Kieñe-Fodur i þañ Sælar-Vooda ad hñ hafe Alltared til ad syndga/ eins og Ephraim? þad giøra þo aller þeir ed þa vÿsvitande til Alltares taka / sem þess Overduger eru. Ecke styggest DRotteñ vid þÿsa Einfelldne Nicodemi / hañ vill ecke þeña brækada Reyr i sundur briota / helldur til þess ad uppræta þessa Fávitsku ur hañs Hiarta um Lÿkamliga Fædingu/ þa seger hñ hverneg þÿsare Andligu Endurgietningu sie vared/ med þÿssum Ordum : NEma Ad Eiñ ENDurfædest Af VAtne Og ANDa/ Þa Kañ Hañ Ecke Ad Iñgánga I GUds RIIke. Hañ blessadur hafde þa alla Reidu skÿrast læted nær þetta skiede/ og Johañis Skÿrn hefur Nicodemo alkuñig vered / þa var og Løgmæl Umskurnareñar afmæd/ svo ad i Christo gÿlldte hverke Umskurn nie Yfer-Hwd/ þvi Tÿme Endurbootareñar var komeñ/ sm̃ Paulus umgiefur/ Heb. 9. Eñ Skÿrneñ var aftur i heñar Stad iñsett/ og Drottens Kvølldmæltÿd skomu sÿdar i Stadeñ Páska-Lambsens/ hver ed vara mun æsamt Skÿrneñe þar til Verølld þrÿtur. Þess gietur Paulus/ 1. Cor. 11. er hañ bÿdur ad vier med þessu Himneska Giesta-Bode skulum kuñgiøra Dauda DRottens þar til hañ kiemur. Til þÿsarar alvÿsu Ræd-Stofunar hiñar hæleitu Guddoomsens Þreñingar vÿsar nu Frelsareñ þessum sÿnum Læresvein / og leggur Orsøkena til/ sem þÿsse goode Madur hefur ecke ædur skÿniad/ HVad Sem

Aþ HOLLdenu Er FÆdt/ Þad Er HOLLd/ Enn HWad Sem Aþ ANDanum Er FÆdt/ Þad Er ANde. Þad er Upphaþ Christendoomsins ad Madurenn vite ecke einasta ad hann sie spilltur ad nockru Leite aþ Uppruna Syndenne/ helldur og olldunges i Syndenne daudur/ svo ad vor Nattura verdur ad Endurþædast med ollu/ hvad Omoguligt er ad skie kunne nema þyrer Almættis Krapt Guds er Mannenn i þyrstu skapade riettann edur heilagann/ svo sem hinn vitse Salomon ad Orde kiemst/ Eccl. 7. Og þess vegna heþur vor goode Kiennefader Lutherus læted Logmæled undann ganga odrum Portum christelegs Lærdooms/ ad vier aþ þvi kynnum ad siaa vorn Holldlegann Saurugleik/ svo þad yrde þanneg vor Typtunar Meistare til Christum. Enn HWad Sem Aþ ANDanum Er FÆdt/ ÞAd Er ANDe/ Þad er/ þad sem Endurfædt er/ og af Gude þædt/ Joh. 1. I hverium Guds Sæde er/ 1. Joh. 3. þad er Ande: Ecke svo ad Holldeð umbreytest i Anda/ helldur verdur sa hinn same Andligur Madur/ eins og Adam vard ad lifande Saal/ 1. Cor. 15. þad er liþande Madur / hann verdur eirn Ande med Gude eþ hann æhanger honum/ 1. Cor. 6. og Footfredur ecke Guds Saattmaala/ jaþnvel þoott ecke sie þess Von i þessu Daudliga Hollde/ ad vier aldeilis Andliger verdum / þvi er sæ Glymann a mille Holldsins og Andans/ er Paulus svo optlega talar umm/ þad skiedur fyrst i Upprisu Riettlætra ad vier Andliger verdum til þulls / þa munu vorer Lykamer Andliger og Englunum jafner verda / og vorar Saaler eitt med Gude sem verda mun allt i ollu a þvi Gledennar Lande / þvi neþnest hun og Endurfæding hia Matth. 19. Cap. þad er Uppreisn allra Hluta/ svo sem Petur þad kallar / Act. 3. Visse DRottenn ad ei munde Nicodemo skiliast þetta enn nu/ þvi seger hann strax epter/ UNdrast Ecke Ad Eg SAgda ÞIer/ Ad YDur BYRtade Ad NYiu Ad FÆDast/ Og ecke einasta seger hann þad / helldur þar ad auke framsetur hann eitt Omootmælanlegt Dæme uppa Fævitsku hans/ og annara Daudligra Manna/ sem langt eru fræ þvi ad skilia þa Hlute er

þeir

hit Dagliga umgangast/auk helldur ad þeir skynia mune þa himneſku
er ſoo langt yþer ganga Mañligañ Skilning / VJNDureñ Blæs
Og Þu NEyrer NAñs Þyt / etc. DRottens blies a Lærefveinana z
ſagde : Medtaked þier heilagañ Anda. N. Ande kom i ſterkum
Vinde yþer Poſtulana a Nvitaſunudøgū. Soo tekur nu Frelſarens
hier Dæme aþ þeim Alut ſem Andanum var likaſtur / til ad hialpa
Fæþræde þeſſa einfallda Mañs. Vier heyrū aller Vindeñ þioota /
vier finnum hañs Megn a Lijkamanum / eingeñ ſier hñ þo / eingeñ veit
hvar hñ heþur ſijn Vpptøk / Vindureñ blæs a ſomu Stundu i Ims-
um Stødū aþ Auſtre og Veſtre / aþ Nordre og Sudre. Seig mier /
hvar haþa þeſſer Vindar ſijn Vpptøk? Hvert fara þr? Hvar ſlotar
þeim? Fyrſt eingeñ heþur eñ nu fundeſt ſoo viſs / ad hañ giete ſagt oſſ
þad / hverſu muñū vier þa ſkynia þad ſm̄ miklu meir yfergeingur vorn
Skilning. Eñ Soo Eru Og ALLer ÞEir Sem Aþ AADañu
Eru FÆdder / þeir ſiña Guds Anda Hræringar i Sælu ſiñe þegar
hñ ſtraþþar Syndena / uppvekur Ydranena / lijþgar Trwna / kveiker
Elſkuna / Efler þolenmædena / og verkar adrar chriſtelegar Dygder.
Vier vitū og ad hñ er fra Gude komeñ / aþ þvi Ritningeñ heþur ſagt
oſſ þad / eñ hverneg hñ er fra Gude utgeingeñ og i Hiartad komeñ /
þad vitum vier ecke / þvi Guds Rijke kemur ſoo þad verdur ecke adgiætt
ſeger Frelſareñ / Luc. 17. Ecke helldur vitum vier hvert hañ fer / þvi
Andeñ fer i burt og kiemur iñ aptur / vier vitum ad hañ fær er oſſ iñ i
eilijþt Lijf / eþ vier ſtøckvum hañ ecke / eñ þad Lijþ þeckium vier ecke
nema ſoo ſm̄ þyrer Speigel og i Rad-Gatu / þvi þad er Oſynelegt eñ
nu hvad vier verda munum / og vort Lijþ er þoolged i Gude / Col. 3.
Þar fyrer ſa ſm̄ finnur Verkaner H. Anda i Sælu ſiñe / og vill þo ecke
Endurþædinguñe trwa / þad er eins og villde hañ neita þvi ad Vind-
ureñ blieſe / eñ giæte þo ecke ſiælþur a Jørduñe ſtaded fyrer Oþvidre.
Eþ vier þvi neydumſt til Natturuñar Verkan ad trwa / þoott ei ſkil-
ium vier heñar Orſøk eda Vpptøk / Þvi ſkylldum vier ecke gieþa vora

 Skilningu

Skilningu fangna under Hlyðne Trwarennar i Andlegum Efnum sem svo miklu eru Oskilianlegre.

Ecke ber Nicodemus a moote þessu Wysdoomsfulla Sannleika/ er DRottenn talade / enn þo vill hann frædast giør hier umm / og þvi seger hann: HVerneg Maa þEtta Skie? Þar fyrer tekur Lausnarenn til þess sem sterkast var/ þad var hans eigenn Vitnisburdur/ sem er i Fødurs sins Skaute: SAnnlega/ SAnnlega SEge Eg þJer/ VJer VJtum HVad VJer SEgium / Og VJtnum HVad VJer SJed HOfum. Eingenn Rok edur Vitne eru svo sterk sem þetta / GVD hefur þad talad: Þvi sagde JEsus Fordum vid Gydinga/ Joh. 8. Þoott eg bere Vitne af sialfum mier/ þa er þo mitt Vitne stødugt/ enn þetta visse Nicodemus enn þa ecke / Hann sagde ad sønnu i Vndverdu Samtalenu: MEIstare/ VJer VJtum Þu Ert Einn LÆRE-FAder Af GVDE/ Þvi EJngenn Kann Ad GJøra Þau VErk/ Sem Þu GJører/ NEma GVD SJe Med HOnum. Hefde hann sagt J HOnum/ þa hefde hann riett talad/ Enn svo var hann enn þa ecke upplystur/ þo bytiade hønum ad trwa Christo/ þar hann jatade/ ad hann være af Gude/ og giørde svo mikil Kraptaverk/ enn DRottenn liet hann ecke leinge vada i Villu þessare/ helldur skyrer hønum berlega fra/ hver hann sie/ segiande: EJNGenn Mun uppfara Til HJmens/ NEma Hann Sem OFan Stie Af HJmne/ MAnnsins SOnur/ HVer Ad Er A HJmne. Þetta Ord/ Ad VPPstiga Til HJmens/ merker i Ritningunne/ad rannsaka Guds Leyndar Raad/ svo seger Agur umm Ethiel og Ucal/ Prov. 30. Þad er umm hann sem heiter GVD Med Oss og sa MATTuge/ þad er CHRISTur/ Hver mun uppfara i Himinenn/ og ofann þadann? Þad er/ hver mun Guds Leyndardooma Rannsaka/ þar umm talar svo Moyses / Devt. 30. Þad Bodord er eg byd þier i Dag/ þad er ecke huled fyrer þier / edur langt i burtu/ þad er ecke i Himnenum svo þu segia þurfer/ Hver mun fara fyrer oss upp i Himenenn? Þau Ord wtleggur St. Pall/ Rom. 10. þegar hann hef-

ur

ur ædur talad um̃ Leyndardoom Mañsins Rietlætingar pyrer Gude/ Cap. 9. Pu skallt ecke seigia i Hiarta þijnu / Hver mun fara pyrer oss upp i Himeneñ? Pad er ad toga Christum ofañ wr Hædunum : Hvar fyrer? Pvi hañ var Einusiñe ofañ til vor komeñ / og pærde oss þessa Himneſku Speke wr Skaute Fodursins/ þvi þurþte eingeñ upp aptur ad para i Himeneñ / til ad rañsaka Guds Vilia um̃ Mañsins Saluhjalp/ þ er hid sama sm̃ Drotteñ seger hier Nicodemo. Eg sm̃ ad vid þig tala i Lijkingu syndugs Holds/ad Hegdan pundeñ sm̃ Mad ur/z er ofañ komeñ aþ Himne aþ mijns Fodur Skaute/ Eg veit hvad eg sege/og vitna hvad eg sied hefe/eingeñ añar mun uppþara i Himeneñ til ad rañsaka Guds Vegu/ nema eg sem nu er a Himne/ þoolt eg hier vid þig tale / þvi bytar þier mijnu̅ Ordu̅ ad trwa / eþ þu villt hoolpeñ verda/ Pesse er Efalaust Meining Frelsarans / þvi eingeñ heþur um̃ Alldur Gud sienañ/ sa Eingietne Sonur Fodursins/sem er i hañs Skaute/hñ heþur oss þad opeñberad/ seger Joh. Cap. 1. Eñ Lijka Sem MOyses VPPhoof HOggormeñ a EYdemorku/ Soo Wrdar MANsins SYne upp Ad HEþiast/ seger Frelsareñ. Eiñ hver mætte ad-spyria/ Hvad kiemur þesse Fyrermyndan hier vid? Ein geñ er betre/ christeñ Madur/ i øllum Fiærsioodu̅ Ritningareñar/eingeñ sem betur hlyde uppa þad Eþne/sem hier var um̃talad/þvi valde Frelsareñ hana til ad Sañþæra Nicodemum med/ hver hañ visse ad var uppfræddur i Logmælenu. Paulus seger Hebr: 9. er hañ þyder Gamla Testamentesens Foorneruppa Christum/ sialþur Gydingz þyrer ødru̅ Gydingu̅: Hversu miklu framar mun þa Blooded Christi(seger hñ)sm̃ fyrer hiñ eiliþa Anda heþur Foornþært sialþañ sig Oþleckadañ Gude/hreinsa Samvitsku vora aþ daudlegum Verku̅/til ad þioona Gude liþanda. Seged mier / Hvar verda vorar Samvitskur fyrst hreinsadar? J Skijrneñe/ þar fyrer kallar Petur hana Sættmæla goodrar Samvitsku/ Fyrer hvad verda þær hreinsadar? Fyrer JEsu Blood/sm̃ Vitanlegt er af Postulans Ordu̅/ er strax voru leseñ/Hvar

gaþ

gaf Frelſaren̄ Þ wt ? J Graſgardenū/ i Þyng-Hwſe Pilati/ en̄ allra helſt a Kroſſens Gælga/ þvi þar blædde ſiælfu Lyfenu til Olyfes/ og Daude hans var Fullkomnan vorrar Hreinſunar / Þvi ſagde han̄ under Andlæted/ Þad er Fullkomnad. Hver Fyrermyndan gamla Teſtamenteſens hlyder nu beſt uppa Kroſſfeſtingu DRottens ? Eingen̄ betur en̄ þeſſe / nær Moyſes epter Guds Bode upphoof Eyrormen̄ a Eydemørku / Moyſes heingde Ormen̄ uppa Tried/ ſvo er og JEſus a Gælgan̄ uppheingdur / uppa Tried bar han̄ vorar Synder / og feſte þar Handſkriftena þa ſem moote oſſ var/ Col. 2. J þeim Orme var eckert Eitur/ þoott han̄ være hinum ødrum lykur. Guds Sonur er ad allre Hegdan funden̄ ſem Madur/ þo æn Syndar/ Han̄ er fyrer oſſ ſynduga Ormá Madkur og ecke Madur vorden̄ / ſafnvel þoott han̄ være hrein̄ og heilagur/ og fræſkilen̄ Syndurunum/ Jæ/ þoott hn̄ ecke viſſe af Synd/ þa giørde Gud han̄ ad Synd / ſvo vier yrdum Guds Riettlæte i hon̄/ 2. Cor. 5. Aller þeir ed litu þan̄ Eyrormen̄/ ſem Moyſes uppfeſte/ þeir urdu læknader af Eytur-Orma Bitenu. Þu min̄ HErra JEſu ert a Tried upphafen̄/ ſvo ad aller þeir ed þig lyta Trwaren̄ar Augum þeir verde læknader af þvi Bite / er hin̄ ſlæge Høggormur Diefullen̄ beit vora fyrſtu Moodur med/ og oſſ ſydan̄ Daglega bytur/ Þvi ſeger hier og i Gudſpiallenu: SVo Byriar MAn̄ſens Syne Upp ad HEfiaſt/ ſvo ad aller þeir ſem a han̄ trwa Fyrerfareſt ecke/ helldur hafe eylyft Lyf. Þu hefur ſagt/ DRotten̄ min̄/ Ef eg Upphafen̄ verd mun eg draga alla til myn/ Joh. 12. Þad er ecke Gydinga einaſta/ helldur alla þa af øllū Þioodū/ ſm̄ þin̄ Fader hefur þier giefed. Svo drag oſſ þa/ Herra JEſu/ ſm̄ bwum i þeſſu fætæka Lande / hveria þu eins vel leyſt hefur med þynu dyrmæta Bloode og adrar Þiooder / Drag oſſ ſege eg under þin̄ Kroſſ/ ef þier ſvo lykar/ jæ/ uppa Kroſſen̄ med þier/ ef þad mæ til þin̄ar Dyrdar gagna og vorrar Sæluhiælpar. Þad er oſſ fyrer minſtu þynum minſtu Veſælingum/ Vier vitum þu ſagder vid Gydinga/ þegar þier hafed Man̄ſens Son upphafed/ þa munud þier þeckia ad Eg em han̄/ Joh. 8. Þvi trwū vier ad þu ert/ DRotten̄ min̄/ ad ſigrudum Dauda/ Dioſle & Helvyte/ yfer alla Himna hafen̄ i þyna Dyrd/

til

til ad bwa oss þar Visst i þijns Födurs Hwse. Drag oss þangad med þier / O HErra JEsu / svo ad hvar sem þu ert þar meige og þijner Þien arar vera / Þier med Födur og heilögum Anda / sie Vallð / Heidur / Dyrd og Kraptur / þu hwleita Guddoomsins Þreñ ing um Allder Allda A M E N.

# Fyrsta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled / Luc. 16. Cap.

Þañ Tijma. JEsus sagde til Phariseaña. Þar var eirn Rijkur Mañ / sem klæddest Perle og Purpura / og lifde hvørn Dag i Vellistingum pracktuglega. Og þar var eirn Þurfamadur Lazarus ad Nafne / hver ed wle la fyrer hañs Dyrum / fullur Kauna / hañ gyrnteft ad sedia sig af þeim Molum / sem fiellu af Borde hins Rijka. Þa komu Hundar og sleiktu hañs Sær. Eñ so skiede / ad hiñ Volade andadest / og vard borefi af Einglunum i Fadm Abrahams. Eñ hiñ Rijke andadest lijka / og var grefstradur. Eñ sem hañ var i Helvijte og Kvøl unum / hoof hañ upp sijn Augu / leit Abraham ælengdar / og Lazarum i Fadme hañs. Þvi kallade hañ og sagde: O Fader Abraham myskuna þu mier / og send Lazarum hijngad / ad hañ drepe hiñu fremsta sijns Fingurs i Vatn / og kiæle Tungu mijna / þvi eg kvelst i þessum Loga. Og Abraham sagde til hañs: Sonur / hugleid þu / ad þu medtookst hid gooda i Lijfe þijnu og Lazarus lijka hid vonda / þvi hlijt ur hañ nu ad huggast eñ þu ad kveliast. Fram yfer allt þetta / er a millum vor og ydar / miked Diwp stadfest / so ad þeir sem hiedañ vilia fara til ydar / gieta þad ei / og eige þeir helldur þadañ fra ydur / upp til vor komest. Og hañ sagde þa: Eg bid þig Fader / ad þu sender hañ i mijns Födurs Hws / þviad eg hefe fim Brædur / þad hañ skijre þeim fra / so ad eige kome þeir i þeñañ Kvalastad. Og Abraham sagde til hañs: Þeir hafa Moysen og Spameñena / heyre



þeir

þeir þeim. Enn hann sagde: Nei Fader Abraham/ helldur ef nockur Framlidenna fære til þeirra/ þa mundu þeir Ydran giora. Enn hann svarade honum: Ef ad þeir heyra ecke Moysi og Spamönnunum/ þa munu þeir ecke helldur trwa þo ad nockur Framlidenn uppryse.

## Exordium.

Ville ydur Audur til/ þa heinged ecke Hiartad þar vid/ seger David/ Psalm. 61. Ecke fordæmer hann Audenn i sialfum sier/ helldur Ofmikla Elsku a honum. Rykdoomurenn er goodur þeim er riett kann ad brwka hann. Audur er Abl þra Hluta sem giora skal/ seger Cicero. Orlætur Madur Felaus/ hun er eins og einn Kappe Vopnlaus. Eckian sw er lagde einn Pening i Guds Kistuna/ hun lagde ad sönnu meira enn aller hiner Ryku/ þvi hun gaf af Fatækt sinne/ Enn hefdu þeir eins mikid giefed af sinne Audlegd/ epter þvi sem Tala rann til/ þa munde þad og af DRottne ecke synast vel hafa þeiged vered. Være Rykdoomurenn ecke Guds Blessan/ þa munde hann ecke hafa heited honum til Launa synum Elskendum/ er vardveita hans Bodord/ og ecke sæmt Astvine syna þar med. Abraham/ Isaac/ Jacob/ Joseph/ Barzelai/ hin Sunamitiska/ Joseph af Arimathia/ og adrer miklu pleire voru Rykesmenn og þo Guds Viner kallader/ eru þvi Audæfenn stoor Ast-Giøf DRottens/ þvi seger Salomon/ Prov. 10. Ad Blessan DRottens giøre Ryka/ og Hormungenn nume ei nalgast þa/ þau eru Rietiuysum Manne til mikils Heidurs/ þvi seiger hann enn þa aptur/ Prov. 14. Audæfe hinns Vysa eru hanns Corona/ med þiim kunnum vier Londum og Lydum ad hialpa/ med þeim fæum vier sett Børn vor og Naunga til Menta og Manna Kosta/ med þiim kunnum vier ad biarga Naungann i sinne Angyst/ med þeim gietum vier ablad oss Fie-Stooda a Himnum/ ef vier stundum epter ad vera ryker i goodum Verkum/ 1. Tim. 6. svo þeir medtake oss i eilyfar Tialldbwder/ er vier gioru gott þar af i sanne Trw og i Guds Nafne/ hvar fyrer ad sa ed Fatækum giefur/ hann lanar Drottne/ og

ne/og hafa Men alldrei betur vared Fe sijnu. Svo eru nu Audæfen stoort Guds Lan og hans Elsku Merke/nær þau rietttheingen eru og riett brwkud / en svo sem þau eru hinu froomu og Rieitvijsu til mikils Heidurs/ svo eru þau og hinum Ogudlega og agiarna nærsta Oþarf og skadsamlig/ þvi seger DRotten/ad Rannglætesens Fie-Siooder sieu Elldur i Hwsenu/Ja þoott ein sie vel komen ad Aud sijnum/en brwkar hn þo Gude til Styggdar / til Ohoofs og Metnadar/ til ad undertryckia hin Vesæla og Lijtelmagnan / og helldur honu til Okurs/og inne fyrer Verkamanenum/ og hinum Fatæka/ sem Gud hefur skipad ad ala/þa er han Bølvanene underworpen/ þess gietur hin Vijse med þessum Ordum : Sa. ed prettar hina Rieittlatu a vondum Vege/han mun i sine Gløtun hrapa / og hiner Einfolldu munu eignast hans Goots. Ja svoddan Audlegd er hveriu Volæde argare/ svo þad er Kongdoomur ad fara a Vonar, Vøl alla Æfe sijna hia svoddan Rijk doome. J þessa Dags Evangelio verda oss fyrer Siooner setter tveir Men/ ein Rijkur/ anar Fatækur. Vier viliu i Guds Nafne skoda. 1. Dæme hins Rijka/ og svo hans Afdrif. 2. Hins Fatæka/ z svo hans Endalok.

Þu goode Gud sem alleina Rijkur ert / hiałpa oss med Rijkdoome Nadar þinar ad giøra þetta Verk i þijnu Otta ꝥ Jesu Christu/ Am.

# Vtleggingen.

HAR Var EJn RJJkur MADur/ seger Textenn. Rijkdoom, Auren kan eingum af sialfum sier ad bana inn i Himnarijke/ svo sem i Jnngangenum sagt er / þvi sium vier og i Gudspiallenu hin fatæka Lazarum i Skaute hins rijka Abrahams. Toku Van brwkunena i burt/ og mun Auduren ecke skada/ giørumst rijker i goodu Verkum/ og mun þad nockud til Himnarijkis gagna/ en þad vantade þena rijka Man. Han klæddest Pelle og Purpura / seger Textenn. Pell var ein Vefnadur Forkunar væn og Gullvægur halldenn/ han er

nu ecke ad fæ i Heimenum/ Sama er um̄ Purpuran̄ ad segia/ þad var eiñ Litur forkostuligur tilbwen̄ wr Skiel-Fiskiar Bloode/og er nu ecke ad fiña i Verolldeñe. Hvertveggia þetta var Konunga Bwnadur og añara Hoffdingia/og leiþdest ei Mwgamøñum ad bera. Þañeg var Aaronis Bwnadur/og Hoffud-Presta Gydinga/ Exod. 28. Svo vár Josephs klæddur / Gen. 41. Þetta Skart bar Daniel / Dan. 5. Þañeg var Mardochæus bwen̄ / Est. 8. Eñ um̄ þeña rÿka Mañ stendur ecke i Gudspiallenu/ ad hañ hafe nockur þess Nattar Madur vered/þad er og ecke lÿklegt/ þvi Frelsaren̄ muude ei hafa til þss teke ed/ad hañ hefde svo vered i Skart bwen̄/ hefde hañ vered Hoffdinge nockur/þeim er soomt hefde ad bera svo dÿrmæt Klæde/ og var i þessu ecke lÿtill Offmetnadur/ satt er þad/ ad Klæden̄ giøra eingañ vondañ nie goodañ af sialfum sier/eñ Fatnadurenn er Mañenum gieffen̄ til ad skÿla Blygdan siñe/ og vardveita Lÿkamañ fra Kulldanū/þvi mætte þad synast/ ad sa sem kieppest vid ad bwa sig Tiguglígar helldur eñ Virdingu hñs soomer / ad hañ giøre þad añadhvert fyrer Lausl æts edur Metnadar Saker/ og er hvertveggia stoor Synd i Guds Auge lite/ fyrer þvi mun þad ei Syndlaust vera er Meñ brwka til þess ad ebla þÿsa Leste med/ Mismunur i Klædnadenū a ad vera/og var fordū til ad adgreina Virdingar Maña / og svo er Rad fyrer þessu giørt i Lands Løgum vorum/hvad sem þar fram̄ yfer er/þad er Osidseme og Ranglæte/ þvi þad er ad taka siñ Riett fra þm̄ sem Ædre eru ad svo miklu Leite sm̄ þessū Hiegooma nemur. Eg vil segia/ hvert sm̄ ad eiñ er Kostum bwen̄ edur ei/ þa syndgar hañ/ ef hañ klæder sig betur eñ hañs Stande soomer / sie hñ vel ad sier um̄ marga Hlute framar ødrum/ þa spiller hñ miøg svo Agiæte sinu/ ef hñ meinar þad verde ægiætara fyrer Bwningsens Skulld/ þvi Salomon i allre siñe Dÿrd var ecke svo skryddur sm̄ eitt af Akursens Liliu-Grøsū/ og vier vitum̄ þo/ad Gud hefur meira virdt hiñ aumasta og heimskasta Vesæling a medal vor eñ þau/ Eñ vier eigum ad bera sømu Virdingu fyrer Hlut-

nnum

unum og hñ sjálfur þa skapad hefur/ Eñ sie nockur ei nema Almeñelega Kostum hveñ/ og vill þo leita sier Fordilldar af Klædnadenum / þa er mikel Fávitiska i þvi. Eg veit ad eitt Asne verdur þo alldrei Hestur/ þo Meñ sette Gull-Sodul a hañ/ og so verdur eiñ Dære alldrei vijs/ hverneg sem hñ mælar sig utañ. Þesse Osidur þer miøg so i Voxt i Lande voru smamsamañ nu nockur Aar. Ambættesñ vill eins klædd vera og Hwss-Moodereñ/ Þienareñ eins og Herrañ / Sonureñ betur eñ hañs gamle Fader. Formeguneñ/ Mañskapureñ og Vijsdoomur, eñ eru i burtu wr Landenu / Eñ Bwningur og Klæda-Snid ebleist Daglega / Eiñ Skoola-Dreingur kostar ølln til þess ad þær vænañ Kiool/ eñ ad kaupa sier eina Book hvar af hñ nockud gott meige læra/ þar hyrder hañ ecke uñ. Og uñ alla Hlute frañ/ þa skulu vor Klæde skoreñ vera epter framande Þiooda Snide/ giætande lijted ad þvi sem DRotteñ seger ske skule a sijnu Slatrunar Deige/ ad hñ vilie straffa alla þa sem bwast Vilendskum Bwnade / Zoph. 1. Hvad vill hier af verda uñ sijder? Eg ætla DRotteñ þurfe ecke ad leggia Hondena a oss/ Vær erũ vorer eigeñ Bødlar i slijku/ svo ad lijkast er ef þessu skal leinge frañfara/ad þad mune ganga oss eins og þad gieck Judum er þeir tooku upp Sidu Grickia / ad þeir urdu þeim ad Brad / hverra Sidum þeir breyttu epter/ 2. Mac. 4.

Frañveges stendur hier uñ þeña Munadar Kropp / ad hañ hafe Eted Daglega Skijnande Kræser. Epter Textans Ordũ er þ so/ hñ hiellt sig Forkostulega Gladværañ Daglega. Þetta mæ skilia / ad hafe vered i Mat og Dryck og ødru Ohoofe/ sem heyrer til Lijkams-legs Munadar. Nu er þad hier ad segia/ Ad DRotteñ hefur ecke bañad ad hafa Jñdæle af sijnum Skiepnum i riettañ Tijma og med Hoofe og Sidseme. Sialfur var Frelsareñ ad Heimbode Mañia a sijnu Hiervistar Døgũ i Cana i Galilæa/ hia Simone Phariseara/ hia Zachæo/ og optar/ hvar fyrer þoott hañ være hid fegursta Sparneytneñar og Hoofsemeñar Dæme/sem nockurn Tijma hefur skined i

Verølldeñe/ þa var hñ þo aþ Illgiørnũ Phariſæis Oþneytſlumadur og Vijnſvelgur kalladur. Ja/ hñ liet ſitt bleſſada Høþud ſmyria med dijrmætu Salve/og þoott hñ være allra Nluta DRottens/bæde a Himne og Jørdu/þa munde hñ þ ecke giørt haþa/ nema ſlijkt være Leyþelegt nær þad er i Hooþe/ og med goodre Skickan brwkad. DRotteñ baud ſiælþur i ſijnu Logmæle uñ Lauþſkæla Hatijdena / Levit. 23. Þier ſkulud vera glader fyrer DRottne Gude ydar i Siø Daga/hvert Logmæl ad Moyſes ytrekar/Devt.12. Þier ſkulud eta fyrer DRottne Gude ydar og glader vera/þier og ydar Hyſke/ aþ øllu þvi ſem þier kietted ydar Hønd til/aþ hveriu DRotteñ Gud heþur bleſſad þig.Og frammveges i hinu Attanda Verſe ſeger hñ/ad þeir ſkule ecke eta iñañ ſiña Porta a Lauþſkæla Hatijdeñe ſijnar Korn-Tijunder/ eda Tijund er aþ Muſteñe edur Oliuñe. Eñ hñ ſeger: Þier ſkulud eta þ þar i þm Stad/ſem DRotteñ Gud wtvelur/þu og þiñ Sonur og þijn Dootter/ Þræll þiñ og Ambatt þijn/ og Leviteñ/ ſem er iñañ þiña Porta/ ſvo ſkallt þu gledia þig fyrer DRottne Gude þijnũ / hvert Logmæl Nehemias og Hezras Kieñemadur aptur iñleiddu epter Herleidinguna / Nehem. 8. er þeir budu Foolkenu a Lauþſkæla Hatijdeñe/Eted hid feita og drecked ſætañ Dryck/ og ſended þeim eiñ Part/ ſem eckert til bwed haþa/ Aþ þeſſu er audſært / ad hiñ goode Gud hefur ei bañad ad gledia ſig i Hoofe/ þo ſvo / ad Meñ dyrke hañ med Virdingu/ og gledie ſig med Otta/ſm̃ David ſeg͞dur/Pſ. 2. Vijn og Viſter eru fyrer Mañeñ ſkapadar/ ecke forgieþens / helldur honũ til Vnadſemdar og ſkickanlegrar Brwkunar / eñ Vanbrwkuneñ kiemur aþ Holldenu og aþ Fiandanũ. Vid þetta Guds Epterlæte a nu Metnadur og Ohooþ ens Rijka Sælgiætings eckert ſkylldt. Hier ſtendur ad hñ haþe hallded ſig forkoſtulega gladværañ Daglega / þad er ad ſkilia/ hañ var allur ſockeñ i Munad Verälldar þeſſarar/ hyrdte eckert uñ Gud/ eckert um ſijnar Synder / eckert uñ hid komanda Lijþ edur ſiñ Dauda / helldur haþde hañ Magañ fyrer ſiñ Gud/ ſvo ſem Poſtuleñ ad Orde kiemſt/

Philipp.

Philipp. 3. Ja/ riett eins og Esajas seiger i 56. Cap. Komum/ latū oss pylla oss af sterku Vijne/ og Morgun-Dagurenn skal þessum lijkur verda/ og eñ þa kostulegre/ og vantar oss ecke þa i Lande voru/ er hid sama giora mundu / hefdu þeir Raad eins og þesse. Eckert hyrda þeir uñ sitt Embætte/ eckert uñ sitt Framferde / eckert uñ Landsins Gagn/ eckert uñ sijna Saluhialp/ eckert uñ sijna Burtfor af Heim enum/ svo sem hefdu þeir Feste-Bref af Andskotanum/ ad þetta skule Æfenlega vara/ ja/ uñ eingañ Hlut nema uñ Muñ og Maga / og þad sem þeir kuñe ad hafa til ad þioona þeim med/ jafnvel þoott þad skule verda hrifsad wt af Muñe Naungans med Ofbellde og Ran-gindum. Nu voru þesser Lester hiñs Rijka Sælkierra/ svo vonder og fordæmanlleger/ sem alla reidu er nockud umtalad/ eñ þad jook ofmik-lu a/ ad hiñ Vesæle Lazarus/ fullur Saara og Kauna/ la Hungrad-ur fyrer hñs Dyrū/ og er Lijklegt ad hñ hafe nærsta Klædlaus vered/ þvi sa sm̄ eckert hafde til ad sedia med siñ hungrada Maga/ hñ mun ecke hafa miked haft til ad klæda hiñ sama Lijkama. O/ Hörmuleg skielfeleg Hardydge var þetta? Eckert þurfte þesse Gudlause Kropp-ur ad missa af sijnu Borde/ til ad sedia þeñā Vesæling med/ þvi hañ girntest ad sediast af Moluñ þm̄ / er fiellu þar af/ Eckert af sijnu Pelle og Purpura/ þoott hañ hefde kastad eiñe Flijk a hñ (sem hañs Prælar ecke villdu bera) til ad hylia sijn Kaun med/ eñ þvi var ei svo vared/ Hundarner voru Myskunsamare helldur eñ hñ/ sem Gud hafde gefed Vit og Skyn/ og þar ad auke Fullsælu Fiaar/ þvi þeir komu og sleiktu Kaun hañs/ og mætte lijklega segiast/ ad þeir mundu fyrr iñ-ganga i þa himnesku Jerusalem/ Apoc. 22. hefdu þeir þar til skap-ader vered/ helldur eñ þetta Villu-Dijr. O Gud giæfe/ ad þr sm̄ hñ hefur blessad med Audlegd Veralldar þessarar/ þeir villdu þo/ sege eg/ eiñhvern Tijma hugleida/ hvad miked þeir eru Guds Voluduñ Timum skylldugir. Seig mier þu sem veltter þier i Maurunū/ og varla veitst hvad þu skallt af þeim giora: Þegar þier var kastad iñ i Heimeñ un-

der

der eins z fatækis Barnenu/ Hvad haþder þu til meira uñed aþ Gude
helldur eñ þad? Vorud þid ecke bæder eins i Syndeñe gietner? Varst
þu nockud meira med þier iñ i Verølldena helldur eñ hañ? Edur
muntu meira i burtu bera? Hvar fyrer var Gud þa skylldugur til/ ad
giora þig rỹkañ/ eñ hañ fatækañ? Ecke til þess/ ad þu skuler kapp-
ala þiñ syndugañ Bwk eins og þesse Dære / Ecke til ad bwa þig i
Skart eins og hñ/ ecke til þss ad uppheþia þitt Hiarta edur festa þad
vid Audeñ eñ gleyma þỹnum Broodur sm̃ ad Naudstaddur er/ helldur
til ad dyrka sig þar med/ og leggia svo mikid aþ vid hñ sm̃ Gud kreþ-
ur/ þvi hñ er Hwsboondeñ / eñ hñ kreþur svo mikels sm̃ hinū Volada
mæ verda hoolped med/ og þu kañt vel ad missa / og þad jaþnan nær
þu sier edur heyrer eiñ Naudstaddañ / og nær þu þad sier edur heyrer/
þa vit ad þar er komeñ eiñ Skullda-Madur fra Gudè til ad beidast
þess er hñ lænad heþur/ og þu heþur Oþmikid/ eñ hañ mæ vel biarg-
ast vid. Þegar þu kreþur Skulldar þiñar hiæ Aumingia nockrum/ og
hñ heþur þad ecke til sm̃ hañ skal giallda/ edur hañ mæ þad ei missa
æn sỹns stoors Baga/ þa kreþur hañ þig under eins i Guds Vm̃bode
þeirrar Skulldar er þu ætt hønū ad lwka/ eñ hañ heþur Vesælingnū
gieþed/ læter þu hana ecke til/ þa verdur þu Skullda-Þrioofur Guds/
Jæ/ Þiooþur i hañs Auglite/ þar þu stelur wr sialþs þỹns Hende/ og
hiñ strange Hwsboonde mun kreþia þig Avaxtar Fiær sỹns i Tollbwd
eñe hia þeim Rỹka Mañe/ nær þu uppvaknar i Helvỹte og Kvølunū
eins og hñ/ nema þu brwker Ræd Danielis/ er hañ gaþ Nebuchad-
nezar Konunge/ Dan. 4. og aþplænar Rænglæte þitt med Ølmusu-
giørdum vid Fatæka/ Heyr þvi Salomonis Ord/ er hñ seger/ Prov. 3.
Gleym ecke ad giora þeim gott sem byriar/ nær þỹn Hønd heþur Eþne
þar a/ Seg ecke til þỹns Naunga/ gack burt og kom aptur/ a Mor-
gun vil eg gieþa þier/ og þu heþur þad þo/ og læt þier þad sagt vera/
ad hiñ Volade heþur miklu meire Riett til þess / er þu eignar þier /
helldur eñ sialþur þu til ad brwka Guds Læn til Ohooþs og Metnad-
ar/

ar/hvert hñ margfalldlega hañad hefur. DRottenñ seger fyrer Munñ Moses / um̃ Gydingana Samkundu / Hos. 2. Nun veit ecke ad eg er þad sem gief henne Korned og Mustena og Oliuna/og fæ henne ænæg- tanliga Silfred og Gulled/ er hun giører Baal af/ Þetta a miog svo vel heima hiaa þeim sem Gud hefur feinged i Hendur alls Nægter Slaar/ eñ þeir draga þad af hans fæærdum Limum / i hverium hañ skipad hefur ad dyrka sig / eñ brwka þad til ad ala siñ Lausslætañ Kropp/til Nidur-Dreps honum sem Rænginnden lijdur/ til ad hefna a Ovinum sijnum. Þesser giøra Baal wr þeim Hlutum sem gooder eru i sialfum sier/og setta hañ i Guds Kyrkiu/ sem vera ætte Hiarta þeirra/ þ er hina ørgustu Sokqvirdingu Foreydslunar i þañ Stad sem ætte ad vera hiñ allra Helgaste. O Gud betre vorar Tijder/Satan hefur Kaupmeñ sijna i Guds Kyrkiu medal vor / þad er i Mañanña Hiortum / hveria hañ giørt hefur ad Ræningia Bæle / ei sijdur eñ Gydingar fordum Mustered/ Eñ hvad selia þeir þa og kaupa? Þeir selia hiñ Riettlæta fyrer Peninga / og hiñ Volada fyrer eina Skoo/ þeir troda Høfud Fatækra i Saureñ/og um̃turna Vegum fra Hæg- lætu/ Amos. 2. eñ um̃ stijder selia þr sijnar eigen Sæler. Þess giet- ur Syrach i 10. Cap. med þessum Ordum: Eckert er Rænglætara Fegiørnum Mañe/ seger hañ/ þvi hañ lætur fala Sælu sijna/ Þar fyrer seger Frelsaren / ad lijted gagne þad Mañenum/ ad hañ eignest allañ Heimeñ/og lijde Tøpun a Sælu siñe/ hvar um̃ þsse rijke Mad- ur mæ øllũ þeim lioost Dæme vera er elska Kroppeñ meir eñ Sælena. Ecke stendur hier i Gudspiallenu / ad hañ hafe vered illa komeñ ad Aud sijnum. Þad var hñs Fordæmingar Søk / ad hañ brwkade hañ til Ohoofs/ eñ gleymde hinum Naudstadda og Færæda. Nu ef hñ fieck svo skielfeligañ Dom/ hvad vilia þeir þa segia a medal vor/ sem ecke einasta stijnga wr sier Augun nær þeir sia eiñ Purfamañ / edur añañ/sem vitnur Bake brotnu fyrer þvi er þr brwka til Munadar sier/ helldur og rya Guds volada Saude/ og eta sitt Braud i fra Andlitis

D Sveita?

Svetta? Hvad munu þeir ſegia vilia? Hvers munu þr vænta ſier nær
þr eiga ad ſkilia vid allt þ er þr med Rangindū hafa ſamañdreiged?
DRotteñ ſeger vid Konungeñ af Tyro/ Ezech. 28. Þu ſeger/ Eg
em ſterkur Gud/ og byꝫ einu Guddoomligu Herberge / eñ ſkomu ſydar
verdur honum ſagt: Muntu nockud ſegia vid þiñ Veganda / Eg em
ſterkur Gud? Langtum eru þr miñe Mattar eñ Konungureñ af Tyro
hia oſſ/ er ſig giora nærre þvi ad Gudum/ þegar þr upphefia ſig yfer
Guds Ord og Konungſens Løg/ þegar þeir fella hiñ Saklauſa / eñ
hefia Skalkiñ / og þyker ſvo ſem þad ſtande i ſÿnu Vallde ad rada
fyrer hvers Mañs Giæfu og Ogiæfu / eñ þegar Daudeñ kiemur ſvo
ſem ein Volldug Hetia og kaſtar þm̃ i Bana-Sængena/þegar Sam-
viſkan tekur til ad bÿta/ þegar Miñing Glæpaña tekur ad Ofbiooda
þeim/ þegar Satan ſem hefur ſtekad þa til allſkonar Odæda/ þegar
hañ reider Svipuna til/ og ſÿner þeim Helvÿtis Loga/ hvar hiñ rÿke
kvelſt og kveliaſt mun um̃ Allder Allda/ eñ Guds Reidar-Þruma ſlær
af Himnū ofan/mun þa veſæl Mañeſkia ſegia/Eg em ſterkur Gud?
Heyred þetta / O þier ſem wtſiwged Hws Eckna og Fodurlauſra/og
leiked DRottens a medañ hañ er ad fiña. Hiner agiørnu og Of-
rÿkismeñerner eru med tveñu Moote/ſumer færa Foorner Nete ſÿnu/
og breña Reykelſe fyrer ſÿnum Veidarfærū / þviad fyrer þau er þra
Hlutur feitur vordeñ/og þeirra Matur hiñ beſte/ ſvo ſem Habacuc ad
Orde kiemſt i 1. Cap. Þetta eru þeir ſem reikna þad til ſiñe goodre
Forſioon (rietta ad ſegia/ Rangſleitne ſiñe og Underhyggiu) ad
þeir eru rÿker vordner / og feiter af añarra Braude. Adrer eru þr
ed ſegia/bleſſadur ſiert þu DRotteñ/ þad eg em rÿkur vordeñ/eñ drepa
þo Slatur-Saudena med Ofbellde / og eingeñ er ſa ſem ad fæde þa
edur brwke Medaumkun med þeim/ eins og þſſe ſame Spamadur ad
Orde kiemſt. Þetta eru þr ſem af Gude og enu hærſta Vallde eru
yfer adra ſetter til þeſſ ad þeim lÿde vel / eñ giøra þo eckert þad ſem
Gud og Konungureñ boded hafa / helldur eta i kringum ſig eins og

Ulfar

leys Fiøtur Tungu vorrar / svo ad vier tølum riett / þad sem Gude sie til Loffs og Dyrdar / Hans Kyrkiu medal vor til Vppbyggingar / en Andskotans Rijke / og allre hans Ydne til Nidurdreps. Bænheyr þad vor Lausnare / þyrer þijna Forþienustu / Þier med Fødur / og Heiløgum Anda / sie Valld og Kraptur / Rijke og Mattur / Æra og Dyrd / Fra eine Eilijfd til annarar / Amen.

## Þrettanda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled / Luc. 10. Cap.

Og JEsus hann snere sier til sinna Lærisveina / og sagde þeim Einslega. Sæl eru þaug Augu sem sia þad / hvad þier siaed / þvad eg seige ydur / þad marger Spamenn og Kongar / villdu hafa sied hvad þier siaed / og sau þad ecke / og ad heyra hvad þier heyred og heyrdu þad eige. Og sia / ad nockur Løgvitringur stood upp / freystade hans og sagde: Meistare / Hvad skal eg giøra / so ad eg eignest eilijft Lijf? En hann sagde til hans: Hvad er skrifad i Løgmalenu? Hvørnenn les þu? Hann svarade og sagde: Elska skalltu DRottenn Gud þinn af øllu Hiarta þijnu / og af allre Ondu þinne / og af øllum Mætte þijnum / og af øllu Hugskote þijnu: og þinn Naunga sem sialfann þig. JEsus sagde til hans: Þu svarader riett / giør þad og muntu lifa. En hann villde riettlæta sialfann sig / og sagde til JEsu: Hvør er þa minn Naunge? JEsus svarade z sagde: Madur nockur foor fra Jerusalem / ofann til Jericho / og hrasade a medal Ræningia / hvører ad rændu hann Klædum / og lemst rudu hann Sarum / geingu sijdann i burt / og lietu hann þar epter halfdaudann liggia. En so bar til / ad Kiennemadur nockur foor ofann þann sama Veg / og er hann leit hann / gieck hann framm hia honum. Slijkt hid sama Levitenn / þa hann kom nærre þeim Stad / og sa hann / gieck hann þar framm hia. En Samvertskur Madur nockur foor umm fared Veg / kom þar nærre honum / og sem hann sa hann / þa hrærdest hann af Myskun vid hann / og gieck ad honum / batt umm Sar hans / hellte þar

þar i Vidsmiøre og Vijne/ og lagde hañ uppa siñ Eyk / og flutte til Herbergis/ gaf og Giætur ad hønum. Eñ añars Dags þar epter þa hañ foor i burt/ took hañ upp tvo Peninga/ og fieck Hwsbwand-anum/ og sagde til hañs: Haf þu Gæt a hønum/ og hvad þu legg-ur meira wt/ þad skal eg borga nær ad eg kiem aptur. Hver þeirra þriggia synest þier vera þess Naunge / sem hrasadur var a medal Ræningia? Eñ hañ sagde: Sa sem giørde Myskunarverked a hønum. JEsus sagde til hañs: Far þu og giør slijkt hid sama.

## Exordium.

Hvilijk Oeining ad vered hafe millum Gydinga ꝛ Samarisk-ra Fordum/ þad vottar heiløg Ritning i nockrum Stødum. Hvernig bidur þu mig uñ ad drecka / þar þu ert Gydingur / sem er ein Samarisk Kona/ sagde hun er talade vid Frelsar-añ/ hia Jacobs Bruñe / þvi ecke samneyta Gydingar Samaritanū? Joh. 4. Seigium vier ecke vel/ad þu ert Samverskur/og hefur Diøf-ul/ søgdu þeir Gudlastararner Fordum/Joh. 8. Og svo miked Natur bæru Gydingar til þra/ ad eiñ Neidinge mætte Gydingur giørast / eñ ecke Samariskur/ jafnvel þoott þeir brwkudu marga Gydinga Sidu i Þioonustu siñe/svo siñ eirn af þra Meisturum skrifar/ og sañast hier medal añars/ þad er Frelsareñ talade vid Phariseos/ ad þeir bøñudu Moñuñ iñ i Himnarijke/ eñ sialfer kiæmu þr þar ecke/ Matth. 23. Af þessu Jafnbyrdis Hatre/ sem i þa Daga var millum Gydinga og Samariskra/ tekur Frelsareñ sier Orsøk til ad sañfæra þeña Løgvit-ring/ siñ Gudspialled umgietur/ ꝛ mæ hier rekia Spor hñs Guddoom-legrar Speke/svo vel/sem i øllu hañs Tale. Hefde hñ ecke teked hiñ Samariska til Dæmis uñ Myskunarverked / helldur læted hañ vera þañ / sem hrasadur var medal Ræningia / þa hefde þesse Gydingur sagt/ad hañ ei vered hefde Naunge hñs/og Gydingureñ þar fyrer ei skylldugur til ad Lidsiña hønum i neinu: Eñ fyrst hañ var Samari-tan/siñ Myskunsemena framde/ eñ hiñ var Jerusalems Madur/ þad

er Gydingar / og mætte þvi Mÿſkunar verdur þykia / þa gat hin ecke fra þvi geinged/ad hn̄ være hn̄s Nænge/ſm̄ gierde gott Verk a hon um. Ecke a þeſſe Skiellḡking ſvo ad ſkiliaſt/ad ſæ ſie einaſte Naun ge/ſem giører eins og þeſſe Samaritan/þad giører Frelſaren̄ bert/ er han̄ ſeger: Hver Laun hafed þier þeſſ/ad þier elſked þa/er ydur elſka/ Giøra ecke Tollheimtumen̄ hid ſama? Matth. 5. Helldur er þeſſe Meiningen̄: Fyrſt þeſſe Samaritan giørde þetta vid ein̄ Gyding/ þa far þu/ſem ert Gydingur/ og giør ſlykt hid ſama vid ein̄ Samaritan/ edur þin̄ meſta Ovin/ þviad hver ein Man̄eſkia er þin̄ Nænge/ nær honum æliggur. Vt af þeſſu Tale DRottens/ vil eg taka mier Orſøk til ad tala um̄ Kiærleikan̄/og hvad lægt han̄ eige ad næ.

Vert þu i Verke med oſſ DRotten̄ / ſvo ad þetta vellucke ſt/Am̄.

## Vtleggingen̄.

MArgar Dygder eru bodnar i heilagre Ritningu/ og morgum hrooſad/þo eingū meir en̄ Kiærleikanum. Nu blyfa þeſſe þriu/ Trwen̄/Vonen̄ og Kiærleikuren̄/ en̄ Kiærleikuren̄ er þo meſtur af þeſſum/ ſeger Paulus /1. Cor. 13 Þetta er ſtoor Vitnisburdur af honum/ er ſvo var kiært til Ættmanna ſinna Gydinganna/ ad han̄ æſkte ſier ad vera wtreken̄ fra Chriſto þyrer þeirra Skulld/ Rom. 9. Han̄ mun meint hafa/ ef þad kynne ad gagna þeim/ og þ møgulegt være/ þvi ſkiarſt i hinum 8. Capitula/ Segeſt han̄ vera þeſſ Fullviſſ / ad eingen̄ Hlutur mune geta ſkiled ſig vid Kiærleika Guds/ ſem ad er i Chriſto JEſu: En̄ þvi hrooſar han̄ nu ſvo miøg Kiærleikanū fram̄ yfer Trwna / æn hverrar han̄ þo ſeger / ad Omøgulegt ſie Gude ad þocknaſt/ Hebr. 11. og ad fyrer hana verde Men̄ hoolpner/ æn Ver ka Lögmalſins? Þad velldur þvi/ ad Trwen̄ er daud æn Verkanna/ ſeger Jacob Poſtule/Jac. 2. Han̄ meinar æn Kiærleikans Verka/ſem þo af henne framkoma / þvi Trwen̄ ſyner Abl ſitt hvad meſt i þeim: Satt er þad/ad eingen̄ verdur Hoolpen̄ æn þeſſ/ad hn̄ trwe a Gud/og han̄s Chriſt/og treyſte þvi/ad han̄ endurkeyptur ſie fyrer Guds Son

ar Blood/ eñ þvi gietur ſa ecke trwad/til Saluhialpar ſier/ſem er aan Kiærleikans / Paulus bydur / ad Meñ ſkule reyna hvert þeir ſieu i Truñe/ Eñ hvar med eiga þeir ad reyna þ/ nema med Kiærleikanū/ an hvers Trueñ er eingeñ Tru? Svo ſem Kiærleikureñ gietur ecke vered aan Truareñar/ſvo gietur ei Trueñ aan Kiærleikans vered/ þad vottar Paulus/1.Tim. 1. er hañ ſeger: Ender Lögmalſins er Kiærleikureñ af hreinu Hiarta/ z goodre Samvitſku/ z Tru Hræsnislauſre. Lögmaled er Omögulegt upp ad fylla/ þad vottar Paall/er hñ ſeger: Aß Lögmalſins Verkū mun eckert Hold Hoolped verda/Rom.3. Þo ſeger hñ aptur i ſama Piſtle/ Sa ed elſkar añan/ ſa hefur Lögmal ed uppfyllt/ Rom.13. Hvad ber til þeſſa / chriſtner Meñ? Ad vḡſu ſvarade JEſus Lögvitringnum/ er ſpurde hañ ad/ hvert ed være hid meſta af øllum Bodordunum/ Matt. 12. Hañ ſvarade hønum: Hid æðſta allra Bodordaña er: Elſka ſkalltu DRotteñ Gud þiñ af øllu Hiarta þīnu/og af allre Saalu þiñe/og af øllu Hugſkote þīnu/og af øllum Mætte þīnum/þetta er hid æðſta Bodord/ og añad er þvi lȳkt. Elſka ſkalltu Naunga þiñ / ſem ſiaalfañ þig/ Og i þeſſum tveimur Bodordum/ ſeger Lauſnareñ / ad fvolged ſie allt Lögmaled og Spameñerner/ Matth. 22. Eñ ſvo ſem oſſ er Omögulegt allt Lögmaled upp ad fylla/ ſvo er oſſ þad og langt um̄ Megn fram̄ / ad fullnægia þeſſū tveimur Bodordum/ſvo ſem vera byriar/med vorū Tilverknade. Hvilkur er þa ſa Kiærleikureñ/ſem er Lögmalſins Uppfylling? Þad maa eg fyrſt og fremſt hier til ſvara/ad þ er hñs Guddoomlegur Kiærleike/ ſem gaf ſitt Lȳf i Daudañ fyrer Syndarañ/ Rom. 5. ſvo hañ mætte lifa/ 1.Joh. 4. Sw Elſkañ / ſem vard hønum ſvo ſterk ſem Daudeñ/og Vandlætingeñ ſvo hørd/ ſem Helvȳted/ hin miklu Vøtnen kuñu ecke ad wtſlockva hañ Kiærleika/og ecke Bylgiurnar ad kefja hañ/ſeger Brwdureñ i Lofkvædenu/ Cap. 8. Þeſſe Dum̄rædelege Kiærleike og Brune Elſkuñar/ Hañ er fyrſt og ſijdarſt Lögmalſens Uppfylling / þad vottar Paulus/ er hañ ſkrifar/ Rom. 8. Þad ſem

ad

ad Lögmálenu var Omøgulegt/af þvi þad veiktest fyrer Hollded/þad hefur Gud giørt/sendande sin Son i Lijkingu syndugs Holldes/ og fyr er Syndena fordæmt Syndena i Holldenu/En þoott ad Giæska Guds hafe svo yfergnæft til vor i Christo JEsu / þar fyrer vill han ecke ad vier skulum Hlutlauser vera af Kiærleikans Verkum Innbyrdis medal vor/ þvi Johannes seger med berum Ordum: J þvi er Kiærleike Guds Auglijstur vid oss / ad han hefur gefed Sal sijna wt fyrer oss/ Svo eigum og vier ad wtgefa Sálena fyrer Brædurnar/ 1. Joh. 4. Elskan til Naungans er Omissande / og an hennar er eingen Rettnefndur Christenn: Hver sem segest elska Gud / en hatar sinn Brooder/ han er einn Lugare/seger Johannes/ þvi ef han ei elskar sinn Brooder/þann ed han sier/hvernig má han Gud elska/ þann ed han sier ecke? Og þar af skulu aller þeckia ydur / ad þier sieud mijner Lærésveinar/ ad þier elskest Innbyrdes / seger DRottenn sialfur / Joh. 13. Hier af vill þad fylgia / ad han sem ecke Elskar sinn Broodur / han er ecke Læresveinn Christi/Sá sem ecke er hans Læresveinn/ hn er ecke Christenn/ og han sem ecke er Christenn/ han hefur ecke Hlutdeilld med hønum/Med hverium þa? Med Vantrwudum mun han setta hans Hlutskipte i þvi Dijke/sem vellur af Ellde og Brennesteine/já/med Dioflenum og øllum hans Arum/ þeir ed hata bæde Gud og Menn: J einu Orde ad segia : Þar er einkis goods Von a þeim Manne / i hverium Kiærleikurenn ecke bijr / Jafnvel þoott han syniest giøra nockud gott/ kann ske til ad pirra sig Vijrdu/til Fordilldar sier/og til ad þiggia Hroos af Mønnum/ eins og Phariseí giørdu Ølmusur sijnar: Þar um tekur Paulus Tungmálenn af/er han seger/ 1. Cor. 13. Þoott eg Bitade allar Eigur mijnar nidur fyrer Fátæka / en hefde ecke Kiærleikann / þa gagnade mier þad ecke / Og hier þvert a moote/ Hver sem Kiærleikann i sier hefur blijfande / han er til allra goodra Verka hæfur. Svo seger Johannes/ Gud er Kiærleikurenn/ og sá sem blijfur i Kiærleikanum/ han blijfur i Gude/ og Gud i hønum/1. Joh. 4. þetta hefur

ur sa Guds Madur man Epa lært ap sijnum Meistara / hver hañ elskade/ þvi svo seger hañ blessadur hia sama Gudspiallamañe/ Cap. 15. Sa sem blijfur i mier fyrer Kiærleikañ/ og eg i hønum/ hañ ber mikeñ Avoxt/ þvi an myn geted þier eckert. Siæed hversu Omøgulegt er an Kiærleikans Gude ad þocknast / og hversu ad hañ er Saal allra Dygda og Mañkosta/ þvi ep sa blijfur i Gude/sem i Kiærleikanum blijfur/ svo sem strax var sagt/ þa eru hañs Verk i Gude giørd/ Þvi seger og Paulus/ Col. 3. Vm̃ alla Hlute fram̃ þa hafed Kiærleikañ/ þvi þad er Band Fullkomlegleikans. An Trwareñar er Omøgulegt Gude ad þocknast / sem adur er sagt / eñ søñ Trw er alld rei an Kiærleikans/ þvi mä eg svo kalla / ad þau sieu eins og Fader og Mooder allra þeirra Athafna / sem nockud eiga fyrer Gude ad gyllda. Esajas skrifar svo um̃ Gud/ ad Elldur hañs sie i Zion/ og hañs Ofn i Jerusalem/ Esa. 31. Teiknande þar med Guds Þioonustuna i þeim heilaga Stad/ hvar eñ allra Næste hafde sett Miñing sijns Nafns / eñ sw Dyrkan hefur Enda teked / Sool Riettlætesins hefur Skuggañ afmaad/ Zion er Eydeløgd/ Jerusalem er uppbrend/ og Gydingum sitt Hws i Eyde læted / Matth. 23. Þvi kalla eg ad nu bwe Guds Elldur/ og hañs Ofn i Nya Testamentesins Mustere/ sm̃ er riett-christens Mañs Hiarta/ hvar Gud hvijlest yfer Cherubim/ yfer þeim Nædarstoolnum er hñ framsett hefur i hñs eigeñ Bloode/ Rom. 3. J einum glooande Anda/ i eiñe lifande Trw/sem verkar med Kiærleikanum/ þvi hun gyllder fyrer Gude i Christo/ eñ hvorke Vm̃skurn nie Yferhwd/ Gal. 5. J Elskuñe til Guds og Naungans/ þad kalla eg hiñ Ævarande Elld / og sijfellt Offur/ Þad nefne eg Guds Ofn i Mañsens Hiarta. Þesse Hofud-Dygd/ Kiærleikureñ/er nu i mørgu foolgeñ / og alla Vm̃geingne vora uppkendrar hañ til hiñs Gooda / ecke sijdur eñ Tungañ til hiñs Jlla / nær hun er uppkendrud af Helvijte/ svo sem Jacob ad Orde kemst/ Jac. 3. Eñ Paulus hefur i stuttu Maale uppteiknad alla hañs Edles Hælku svo merkelega/

ad þad verdur ecke af syndugre Tungu betur giort/ svo skrifar hñ/ 1.
Cor.13. Kiærleikureñ er Þoleñmoodur / seger hañ: Alla Hlute þola
Meñ fyrer þad/ sem þeir elska. Hvad viña Meñ ecke fyrer Mune
Veralldar þessarar / fyrer Audeñ/ fyrer Metordeñ / til þess / ad fa
Hefnd yfer Ovinum synum? Þad sama giører Kiærleikureñ vid Gud
og Naungañ/ Guds vegna. Hañ er Goodgiarn/eckert mæ hñ Aumt
siaa/ Hañ er ad sinu Leite eins lyndur og Gud/ af hverium hañ er/ 1.
Joh.4. Hañ giører Gott ef hñ getur bæde Vinū og Ovinū/ Matth.
5. Kiærleikureñ Ofundar ecke / þad er æ moote hañs Natturu / ad
siaa Ofsioonum yfer nockurs Mañs Velgeingne / sem øllum vill vel.
Kiærleikureñ giører ei Illmañlega/ Þad er/ med ødru Orde ad segia/
hreckvijslega/ Hañ geymer eingañ vondañ Mañ/ Ei talar hañ añad
med Muñenum/ eñ hañ hefur foolged i Hiartanu. Hañ þytur ecke
upp/ Hañ er ecke Drambsamur/ þvi sæ sem elskar eiñ/ hañ vyrder hñ/
eñ Kiærleikureñ elskar alla/ svo miked sm̄ elska mæ med Riettu. Hañ
er ecke Osidsamur/ þar er valla fræ ad segia hvilykꝭ Ofocka og Mañ
haturs ad Vanskickuneñ ablar i Heimenū/ og utvortes Osider/ jafn-
vel þoott sumum Møñum þyke lysted i Kurteisena spuñed/ samt er hun
þo oftast Ongdaña Førunautur / og hun prijder þær / eins og fagur
Bwningur Mañsens Alit/ þetta vill ecke Kiærleikureñ sig vanta læta/
svo ad eingum gefe hañ neina Hneixlan. Hañ leitar ecke epter þvi
sem hañs er / þvi hañ leitar Almeñelegs Gagns hvad mest / og ecke
svo miøg sijns eigeñ. Hañ er ecke Þwnglyndur/verde honum þad/
ad hñ reidest / þa lætur hñ þo ecke Soolena undergæanga sijna Reide.
Hañ þeinker ecke Illt / Ecke æ hiæ honum heima þad gamla Ord-
tæke/ Margur ætlar mig sig/ og mæakulega dyggvañ/ nie hitt/ad Illur
veit hvar Ødyggur situr: Af þvi hañ ætlar eingum Illt/ þa dylst hañ
vid i fremstu Log/ad Hreckvijseñ mune ætla sier þad. Hñ ber allt/ Allt
hvad honum er uppælagt/ þad ber hañ eins og Mæattar-Tre i Hwsi-
um / þau bera allt þad sem æ þau er lagt / hvadañ og Mælshættur
þesse

þesse dregeñ er / Svo rÿs hañ og under øllu / sem hañ mą umbera/
Guds og þeirra vegna/sem hañ er hvad mest skylldugur. Hañ trwer
øllu/ hañ vill helldur trwa þvi/ sem hønum er saklaust ad trwa/ hellð
ur eñ ad væna eiñ Lyge ad Naudsynialausu/ edur Oþþyrtsyniu. Hañ
vonar allt / hañ Dreymer ecke um̃ neitt/ ad ei kuñe hañ ad betra sig/
þoott Ovæniegt mege um̃ hñ þykia / Olÿkur þeim sem ecke vilia neina
Tilraun giøra vid neiñ/ sem aþ einhverre Nrøsun verdur yþerstÿgeñ/
eins og Gud sie ecke Mąttugur ad reisa hañ/ og þess vegna lÿdur hañ
allt/ hañ sparar eckert Þolgiæde til ad bÿda epter Betran þeirra/þar
fyrer talar Salomon vÿslega er hañ seger / Prov. 10. Hatred upp-
vekur Þrætur/eñ Kiærleikeñ hylur Misgiørdernar. Hvad er nu lÿk-
ara Gude eñ þetta Hiartalag ? Og þesser eru nu Kiærleikans Avext-
er / sem upp eru talder / Eñ sier i Lage vill Frelsareñ haþa keñt med
þessare Epterlÿkingu Myskunsemena og Goodgyrnena vid sierhvern
þañ sem Naudstaddur er / þvi hañ svarar hinum Skriþtlærda uppa
Spurningu sÿna/ Hver þar være hañs Næunge ? Þad er ądur hier
ad framañ synt/ hversu ad Gydingar og Samarisker haþe hatast ą iñ
byrdis/ og hveruger meintu adra sÿna Nąunga ad vera/ Eñ DRott
eñ snart hier nockud biturt vid Kaun hiña Skriþtlærdu og Pharisæ-
aña/þar ed hñ tekur til Dæmis i Epterlÿkinguñe Presteñ og Levitañ/
Þesser heiløgu Meñ/ siąlþer Gydingar/ þeir geingu fram̃ hią Gyd-
ingenum/þar hañ lą svo illa fareñ sem i Gudspiallenu seger : Eñ
Fiandmadur hañs/ hverium einkis Gydings Auga munde Myskunad
haþa/hañ giørde Myskunar Verk ą hønum. HAñ SA ABMO-
BR A HDRum/ seger Texteñ : Fyrst vaknade Kiærleikeñ i Hiart-
anu/ svo eigum vier og lynder ad vera/ þvi nema ad Goodgiørder vor-
ar framkome aþ Gnægd Hiartans / þa eru þær Onytar/ þad er ądur
vottad aþ Pąls Ordum/ er hañ seger / 1. Cor. 13. Þoott eg Bitade
allar Eigur mÿnar nidur fyrer Fątæka / og heþde ecke Kiærleikañ /
þa gagnade mier þad ecke. Og aptur bÿdur hñ/ ad Meñ skule giøra

Gott/ ecke af Naudung/ helldur af þwsum Huga/ Eñ hñ liet Good-
gyrne sijna ecke alleina vera foolgna i Medaumkuneñe/ helldur brautst
hun wt med Verkunum. HAñ VAtt HAñs Sæt / HEllte þAr
J VJNe Og VJDsmiøre / med ødru fleira sem Texteñ uppteleur/ og ei þarf framar ad uppreikna/ Eñ i einu Orde vil eg þad segia:
Eingeñ Mooder hefde kuñad betur ad giøra vid Barn sitt / Eingeñ
Fader vid siñ einka Son/ Eingeñ Brooder vid añañ/ helldur eñ þesse
Vilendingur giørde vid Ovin siñ i slijku Tilfelle. Far þu nu/ christ-
eñ Madur/ og giør slijkt hid sama sem Heidinge þesse giørde: Elska
ecke med Orde og Tungu/ helldur med Verke og Sañleika/ 1. Joh.
3. Nær þu sier Broodur edur Systur nakta/ og hafa Skort a Dag-
legre Næringu/ þa lat ecke þiña Kiærleika vera þar i foolgeñ/ ad þu
seger: Lifed heil/ vermed ydur/ og metted ydur/ eñ giefur þeim ecke þo
hvad Lijkamans Naudþurft tilheyrer/ Jac. 2. Þetta er Hræsne Ein-
foom / og þad mun eins lijted gagna Sælu þiñe / nær þu skallt fara
eins nakeñ i burt wr Heimenum/ og þu i hañ komst / svo sem ad þyn
Fagurmæle gegnudu hinum Nakta og Hwngrada/ æ medañ þu hafd
er Audlegd Heimsens. Þad er merkelegt/ ad æ hinum Efsta Deige/
þegar Reikningureñ skal halldast/ þa verdur oss þesse Poostur sier i
Lage fyrerlagdur: hvert Meñ hafa mettad hiñ Hwngrada/ giefed hiñ
um Þyrsta ad drecka/ hyst hiñ Framanda / klædt hiñ Nakta / vitiad
Siwkra/ edur þeirra sem voru i Myrkvastofu/ svo sem Frelsareñ kieñer
oss siælfur hia Matth. 25. Cap. Og er þad ecke noog ad vitia Þra/
þad er eins gott og ad segia vid hiñ Nakta/ klæd þig/ og vid hiñ Hwng
rada / mettast / eñ gefa honum þo eckert. Vor Vilian æ i þvi ad
vera foolgeñ/ ad Hugsvala þeim/ hiælpa þm med Ræd og Dæd/ añars
eru Meñ ecke betre eñ Presturen og Leviteñ / Þeir sæu ad Sonu hiñ
auma Mañ/ er hrasadur var medal Ræningia / eñ geingu fram hia
honum. Jæ/ Vier eigum ad hiælpa þessum Krossberendum/ jafn-
vel med Skada vorum/ og þoott vier meigñ nockurs i þarfnast. Hier
stendur

stendur i Gudspiallenu / ad Samaritaneñ hafe lagt hiñ særa Mañ uppa siñ Eyk. Lykast er hñ hafe læted hañ sitia a Oxrenu eñ geing ed siælfur / Þvi i Textanum stendur/ ad hañ hafe sett hañ uppa siñ eigeñ Eyk/ jæ/ ef vier ecke berũ Kuñættu edur Vitsmune til ad hiælpa þeim siælfer / þa eigum vier ecke ad spara til þess Fe-Mune vora / ad þeim mege hoolped verda / Þvi ef Johañes vill ad vier jafnvel lifum gefa Lyfed wt fyrer Brædurnar / þa er þad vyst/ ad hañ ecke vill ad vier þyrma skulum hinũ Ranglæta Mammon/ er oss mun þo yfergefa i Daudanum/ þvi þad stendur fast/ sem Lausnareñ sagde: Ad allityd er Lyfed meira verdt eñ Fædslañ/ og Lykameñ meir eñ Klædnadureñ/ og meira høfum vier ecke af øllu þvi vier eigum/ og a þetta ecke ad giøra svo naumt/ ad þeir fieu litlu nær/ sem vidþurfa. Ecke var þesse goode Samaritan ænægdur þar med/ ad koma þessum Vesæling til Mañabygda/ helldur Gaf Hñ GIÆFur Ad HÚsnum/ Og uñ MORGuneñ Er Hñ REiste / Feck Hañ HVSBONDanum Tvo PENinga / Og SAgde: Haf þu Gæt a HONum/ Og HVad þu LEGGur MEIra Vt/ Þad SKal Eg BORga/ Nær Eg KJem APtur. O hvad mørgũ/ þm̃ er sig Christiñ nefner/ getur Vtlendingur þesse Kiñroda giørt a þessum verstu og sydurstu Tymum / uñ hveria DRotteñ hefur talad hina søñu Spæ / ad Søkum þess / ad Ranglæted vex/ þa mune margra Kiærleike koolna/ Matth. 24. Eñ þessa Goodvilld eigum vier ecke alleina ad audsyna Naungũ vorũ edur Kuñingium/ þad sie eg berlega af þvi/ er Frelsareñ sagde vid þañ/ er hønum boded hafde/ Luc. 14. Nær þu helldur Middags Verd edur Kvølld Mæltyd / þa biood ei Vinum þynum / edur Brædrum þynum/ edur Ættmøñum þynum/ edur rykũ Nagrøñũ/ svo ad þeir bioode þier aptur einhvern Tyma / og þad verde þier endurgolldet/ Helldur/ nær þu giører Heimbod/ þa biood Fatækũ/ Vønudũ/ Høltum og Blindum/ og muntu sæll verda/ þvi þeir hafa þier ecke aptur ad giefa/ þvi þad skal þier aptur golldet verda i Vpprisu Riettlætra/ þar fyrer/ ef þu/ christeñ

eñ Madur ert/ eƀ þu villt i þre Vppriſu Hlutdeilld haƀa / þa ſia til/ ad þu nærer Hlutſkipte i þiñe fyrre / ſvo þu verder ſæll / og fel þig ecke fyrer Nollde þynu/ þad er/ fyrer þynum Naunga/ hver ſem helſt haſt er/ og nær þu ſier eiñ Naudſtaddañ / er þu hiælpad getur/ þa lat ſvo ſem þid ſiſdarſta Tydurs. Hlıood kvede fyrer Eyrum þier / og tak þad fyrer Bod fra Gude/ til ad minia þig a/ ad giøra Skylldu þyna med Kiærleikans Verke vid þiñ Naudſtadda: Lat eingañ vera undañſkil eñ/ þo þier Opeckur ſie / Gleymed ecke Gieſtriſneñe/ ſeger Pall/ þvi fyrer hana haƀa ſumer Einglana hyſt Ovitande / Hebr. 13. Hañ meinar an Eƀa Abraham/ Gen. 18. Og vard hønum þad ad mikille Bleſſan: Þu veitſt ecke hvertum Guds Þock er ad giøra/ eñ þ veitſtu/ ad hañ þacka vill allt þ/ ſē i hañs Naƀne giørt z geƀed er. Framande var eg/ og þier hyſtud mig/ ſeger Doomare alls Holldz. Þu ſkallt ecke giøra Oƀryke hinū Framanda/ þvi þu varſt Framande i Ægyptalande/ ſeger Gud/ Exo. 22. Þu ſkallt og hyxa þ/ ad þu ert Framande i þiñe vondu Ægypto / Verølldu þeſſare / J þeirre Leyrvelltuñe / Þvi Þrældooms Hwſenu: J þiñe Eilyƀu Canaan er þitt Fedurland/ þangad attu iñ ad ganga til hañs Hoyldar/ Þangad a þig ad leida/ ecke Jeſus Son ur Nun/ helldur JEſus Sonur Davids/ Forſma ecke þa/ ſē hañ heƀ ur med ſynu Bloode Endurleyſt/ er ſialƀur Framande var medal ſiña eigeñ/ og hvad miñſt vyrdtur a ſiñe Fooſtur Jørdu fyrer þyna Skulld/ ſem varſt Vtlægur wr Himnaryke/ og ſvo þu viter/ ad þ ſie ecke noog/ ad giøra hinū Framanda / edur Naudſtadda eckert Mein/ þa leggur Drotteñ ſialƀur beſt wt ſyn eigeñ Ord/ þar hañ ſeger/ Lev. 19. Svo ſē hiñ Jñlende/ ſvo ſk Vtlendingureñ vera/ ſa ed reiſer uñ hia þier/ Og eñ framar: Þu ſkallt ecke upptaka Leiƀar Kornſkieru þiñar: Þu ſkallt lata þær epter hinū Fatæka/ og hinū Vtlenda/ Levit. 23. Ja/ þier ſkulud elſka hiñ Framanda/ þvi þier vorud Framande i Ægyptalande/ ſeger hiñ Alvallde Konungur / Devt. 10. Ecke eru undañ þeſſare Skylldu Oviner þyner ſkilder / Guds Barn/ helldur i heñe tilſkilder/

ſve

ſvo ſeger DRottefi/ Ex. 23. Ef þu finur Naut Ovinar þyns/ edur Aſna Villurꝛfande/ þa ſkalltu endelega fœra þad til hans. Vilie nu DRottefi ad eiñ ſkule vera ſynum Ovin Skulldbundefi i ſvo litlum Hlut/ Hvad þa ecke/ ef hønum meyra œliggur / og þoott eckert være añad/ ſem kyñe ad hræra oſſ til ad giæta þeſſarar Skylldu vorrar/ þa er hid algiorda og alkuñuga Løgmaal Chriſti / er ritad ſtendur hiꝛ Matth. Cap. 5. Elſked Ovine ydar/ Bleſſed þa er ydur formæla/ og bidied fyrer þm̃ ed ſmaana ydur og ofſækia : Til hvers? ſvo ad þier ſiet ud Børn Fødur ydar / ſem a Himunm er / hver ed lætur Sool ſyna uppreñia yfer Rietltæta og Rangtæta/ og rigna yfer Vonda ꝛ Gooda. JEſus mætte hier diarft um̃ tala/ hañ var i Guds Mind/ Phil. 2. Ja / ſiælfur Gud / eilyfur Fader og Fridarhøfdinge / Eſa. 9. þo Lyttelæckade hañ ſiælfañ ſig/ takande Þioons Mynd/ vord eñ hlydug: allt til Daudans/ ja/ allt til Kroſſens Dauda/ ſydañ er hañ uppfareñ i Hædernar/ og hefur Moñuvum Gæfur gefed : Eñ hvilykar Gafur? Nad Guds og Vingan / Syndaña Fyrergiefning / N: Ande og eilyft Lyf. Hverium hefur hañ þeſſar Gafur ſendt? Ovinum ſynum / þm̃ ſm̃ hañ Hæddu / Fiotrudu / Hwdſtrycktu / med Þyrnum Koronudu/ og a Galgañ upphengdu/ ecke einaſta þeim/ er ſtoodu ad Verkenu/ helldur og øllum ødrũ/ hverra Synder ad Dyrdarefiar Hertoga Kroſſfeſt hafa/ þvi fyrer alla er hañ dæeñ/ og øllum er Guds Heilſuſamleg Nad framboded : Þetta giørde hañ/ ſem er Lioome Fødurſins Dyrdar/ þegar allt Mañkyn var ſtatt i hinu herfelegaſta Volæde. Skamaſtu þyn þar fyrer/ Syndareñ/ nær þu ſier Ovin þiñ hwngrar/ ad gefa hønum ecke ad eta/ edur þyrſta/ og gefa hønum ecke ad drecka / og nema þu ſvo giører / þa þeink alldrei til þeſſ / ad þu ſiert kvittur um̃ Synder þynar fyrer Gude / þvi valla hefur GVds Ande i Nya Teſtamentenu lagt ſvo rykt a vid Meñena um̃ nockurn Hlut / ſem þeña. Aller køllum vier Gud vorn Herra / eñ ef hañ er vor Herra / hvar er þa hañs Heidur?

Mal.

Mal. 1. Hvar er Ottinn ſin / er vier eigum honum ad audſyna ? Þvi kalled þier mig Herra / z giøred þo ecke þa Hlute / er eg byd ? ſeger Chriſtur / Luc. 6. Hañs Bodord eru ecke þung / ſeger Johañes / eñ eg vil ſegia / ad þetta er eitt af þeim Liettuſtu / af þeim Audvelldaſtu / fyrer þañ ſem hugleider hvad lÿtel ſie Naungans Misgiørd vid ſig / hia þvi ſ hñ ſialfur hefur giørt Gude i moot / og hverſu þ er ekert / ſem hañ getur lidſiñt Broodur ſÿnum / hia ollu þvi goodu ſem Gud hefur honum giørt / og tekur hañ þad þo ecke af ſÿnu / Helldur hañs / ſem a allar Eigur.

O Drotteñ vtſlock þu i oſſ Baal Illſkuñar / og Heiptrækneñar / eñ
kveik i oſſ Elſkuna til þÿn og Naungans / þier ſie Lof,
Dÿrd og Heidur / um Allder / AMEN.

# Fiortanda Suñudag epter Trinitatis.

## Gudſpialled / Luc. 17. Cap.

Y Þañ Tÿma. Og þad ſkiede ſo þa ed JEſus gieck til Jeruſalem / ad hañ ferdadeſt i giegnum midia Samariam og Galilæam. Eñ ſem hañ gieck iñ i nockurt Kaup-Twn / mættu honum Tiu Lÿkþrææer Meñ / Hverier ad ſtoodu længt fræ / Hroopu ſÿnar Radder / og ſøgdu : JESV goode Meiſtare / myſkuna þu oſſ. Eñ ſem hañ leit þa / ſagde hañ til þeira : Fared þier og ſÿned ydur Kieñemøñunum. Og þad ſkiede ſo / þa er þeir geingu þadañ / ad þeir urdu hreiner. Eñ eirn vt af þeim / Nær hañ ſæ þad / ad hañ var Heilbrigdur vordeñ / Snere hañ aptur / lofande Gud med hærre Rauſt / fiell fram̃ a ſÿna Aſioonu fyrer Fætur JEſu / giørande honum Þacker / og þeſſe var Samverſkur. Eñ JEſus ſvarade og ſagde : Hvørt voru ecke Tiu hreinſader ? Eñ hvar eru hiner Nÿu ? Funduſt aungver þeir apturſnere / ad giefa Gude Dÿrdena / nema þeſſe Vtlendingur ? Og hañ ſagde til hñs : Statt upp og far hiedañ / þvi ad þÿn Trw giørde þig hialplegañ.

## Exordium.

Hverſu

HVersu stoor ad sie Mismunur Guds og Manna / pad kan eingen Tunga wt ad skijra/og eingen Hugur ad skilia : Hver Manna veit hvad Mannsens er/nema Mannsens Ande/ sem i honum er ? Svo og hvad Guds er/ veit eingen/ nema Guds Ande / seger Paulus/ 1. Cor. 2. Enn po ad vor Nattúrlegur Skilningur næ skamt til pess/ad rannsaka Guds Vnderdwp/pa kynnum vier po a pessum Mismun nockud skijrare Grein ad giora/ ep vier legdum meire Hug a/ad samanbera hans Almætte og vorn Vanmatt/hans Riettlæte og vort Ranglæte/hns Vijsdoom og Fakiænsku vora. Enn po allra hellst hans Polenmæde og vora Pvermoodsku / hans Giæsku og vort Opacklæte. Hans Almætte peckium vier ecke svo sem pad er: Sitt Riettlæte syner hn oss ecke svo opt/ nema i Giæskunne/ pvi velldur Rijkdoomur hans Polenmædes : Hans Vijsdoom skynium vier ecke/ Enn hans Langlundarged/hans Giæsku og Myskunseme meigum vier hvad best peckia/pvi hun er ny og fersk yper oss a hverium Morgne/ Jorden er full ap henne/ a hverre vier skrijdum synduger Ormar / og meigum Daglega rekia par hans Spor/sem driwpa ap Feite. Eg skal ecke fullkomna mijna brennande Reide/ Eg skal ecke tortijna fram ar Ephraim/pvi eg em Gud og ecke Madur/seger Giæskann sialp fyr er Munn Hosea Spamans/Cap. 11. Og po vill Syndaren ecke kannast vid pessa Guddoomlega Elsku/ Myskunseme og Polenmæde/ japnvel poott hann sie Madur/ pad er/ ein Gupa/ ein Vatns-Boola/ og ecke Gud / og ecke packa honum edur kannast vid hans Fodurlega Giæsku margur hver/ Ja/ Gud giæpe ad færre væru enn fleire. Dæme hier uppa sium vier i Textanum/ a pessum Tiju Lijkpraa Monnum/ sm hreinsader voru/hverra einn alleina aptursnere/ z gap Gude Dijrdena/ enn hin er Nyu gleymdu pvi ad Bragde er giort var. Eg vil skipta Gudspiall enu i Tvo Hlute/og Hugleida 1. Opacklæte hinna Nyu. 2. Packlæte hins Eina. JESUS GODDE Meistare/ hialpa oss hier til med Krapte pijns Anda / A M E N.

Vileggingen.

Ecke er Trwen allra/ seger Paulus/ 2. Tess. 3. Øllum er hun po frambodenn sem Orden heyra/ pvi Heilsusamleg Guds Nad er Opeñber vorden øllum Moñum / seger Postulen aptur/ Tit. 2. Er han talar um Christneboded/ i hveriu ad Trwen er eitt Nøpud-Sticke / Margur trwer um Stundar Saker/ en a Freistingar Tijmanum/ pa fellur hañ þar fra/ svo sem Lausnaren kenner hia Lucam/ Cap. 8. Ad vijsu er pad satt/ ad Freisting merker optlega i Ritningunne þær Nørmungar/ er Gud lætur Bornum sijnum mæta/ til ad reyna þau: Ydur hepur ecke hendt nema Mañleg Freistne / seger Paulus/ pad er Mootlæte pad sem Moñum er bærelegt: Svo nepner og Jacob Mootlæte Guds Barna / Cap. 1. En Gud Freistar Mañsens a Stundum med Epterlæte sijnu: Þegar Gud liet David allt ad Oskum ganga/ þa vard hñ svo freistadur/ad hañ talde Foolked/2. Sam. 24. Þegar Ezechias Konungur hapde Lucku i øllu sijnu Verke / þa freistadest hañ til ad sijna Babilons Nøpdingia Sendemoñū Fiar Sioodu sijna og Gersemar/ 2. Cron. 32. Svo ad pad ma allt syndugt Nollo jata/ ad ecke er miñe Freistinga Von i Medlætenu en i Mootlætenu/ svo sem Moofgangur en steypper sumum i Drvænting / svo þurpa og sterk Bein til ad þola gooda Daga. Mørgum hepur Velgeingnen komed til Ohoops/ til Opmetnadar/ til Opacklætes vid Gud/og japnvel til Apgudadyrkunar/ ja/ þeim og sem Gud hapa ædur vel þeckt/ og hñ wr Duptenu hapad hepur / en sett til mikillrar Tignar / hvar um lioost Vitne bera Jeroboam og Jehu Israels Konungar/ sem ecke voru Kongborner/en Gud po upphoop a Tignar-Stool Drottna sina. Ecke verdur þvi neitad/ ad aller þesser Ljkþrau Men / þeir hapa i Fyrstuñe trwad a Christ/þvi upphoofu þr Radder sijnar/ og sogdu: JESU MEJSTare MYSKuna Pu Oss / Pad hepdu peir ei giort/nema þeir hepdu heyrt Rikted ap DRottne/og treyst pvi/ ad med honū være Guddoomlegur Kraptur: Er eg Gud ja ed kuñe ad deyda Aue

edur lijfga / ſagde Iſraels Konungur / þegar Konungur eñ af Syria ſende Naaman hiñ Syrlendſka til hañs / þad eg gete hr.inſad þeña Mañ af ſiñe Lijkþrꜳ/ 2. Reg.5. Hvar af audſært er/ad þad hefur vered ad ſofnu lagt i þa Daga/ ad lækna þeſſ Nattar Siwkdoom/og ad uppvekia af Daudum/ſem er Guds alleina ſvo ſem David vottar/ og er þvi audvitad / ad þeſſer veiku Meñ hafe til lagt Frelſaranum nockurskonar Guddoomlegañ Heidur / þoott ei hafe þeir vered Sañfrooder uñ hañs Perſoonu/ſamt dugde þ ſſe Trw til Lijkamans Lækningar. DRotteñ læknade þa ecke ſtrax/eins og hiñ Lijkþrꜳ/er getur uñ him Matth. 8. Cap. Vid hvern hañ ſnart og ſagde: Eg vil vertu hreiñ / Helldur ſagde hñ alleina: FARed Og SYNed YDur KJENNEmoñunum / og ꜳttu þeir þo lꜳnga Leid til þeirra wr Samaria upp til Jeruſalem/eñ ꜳ Leideñe hafa þr hreinſader vorded/ þvi Gudſpialled ſeger: Og ÞAd SKede Er ÞEir VOru A Ferdeñe/ Ad ÞEir HREJNSuduſt. Þetta ſyner Trw þeirra/ad þr efuduſt ecke uñ/ad giora Frelſarans Skipan/ helldur i Trauſte hñs Orda byriudu Ferd ſijna til Keñemañaña/ſem epter Lögmꜳlenu ꜳttu ad dꜳma uñ hvert þeir vꜳru hreiner edur ei. Olijker voru þr i þſſu mörgum þeim /. er ei vilia Gude treyſta / verde þeir ecke ſtrax Bꜳnheyrder/ uñ þa Hlute er þeir þurfa þykiaſt. Vantrweñ ſeger: Þoott Gud giore Glugga a Himeneñ/ þa kañ ecke þetta ad ſke/ hun ſkytur ſier iñ jafnvel him Guds Börnũ/og Predikor/Hvar fꜳũ vier Braud hier i Eydemörku ſvo ad þeſſer neyte/Marc. 8. Hvad tijtt hender oſſ þvilijkt nær oſſ þyker eitthvad Olijklegt? Ja er margur af oſſ i þeſſu miög Olijkur þeſſum Lijkþrꜳu Mönum / Eñ i hinu erum vier þeim nærſta lijker/ad þegar DRottens Almꜳttuga Hönd hefur wtryckt oſſ af Neydeñe/þa erum vier þeſſ ſvo ſkañmiñuger/og hñs Otte er valla leingur him oſſ eñ Snioor eñ ꜳ Steinunñ/þegar Regned Ofañkemur/ ſvo ſem Spꜳmadureñ ſeger/Og hvad er tijdara eñ þad/ad nær Angiſteñ þreynger ad oſſ/ ad vier þa köllũ til DRottens/þa er vort Siñe

til Hañs/svo sem Esajas ad Orde kiemst: Cap. 26. Noer er sa / nær hañ siwkur er / edur af einhverium Lykamans Meinum plagadur/ ad ecke sie hañ reidubweñ til ad giefa Gude Handskrift sijna/ ef hañ mætte/uppa Betran Lyfernesins/ og ad hañ vilte læta af ollum þeim Syndū/er hū veit z vidkañast/ ad hañ hafe hiñ gooda Gud styggdañ med? Þetta er ad vijsu Alvara flestra Mañа/ þot eingeñ hygg eg ad vilie gabba Gud/ þegar svo ästendur: Asetningureñ er ad sonu goodur/ og geingur þad fyrer fullt/ef Gud lætur eiñ burtkallast i Siwkdoomenum/ Eñ þa er Efndaña vant/ þegar Neited er komed/ seger Ordtaked / hvernig þeim sie vared a Stundum / þad sæmum vier af þeim morgum sem hætt hafa leged/ eñ Guds Þoleñmæde og Giafka hefur aptur a Fætur reist / ad þeir lifa eingu betur sijdañ eñ ædur / nema midur sie a Stundum / og læta iafnvel ecke af þeim Lostum / er vered hafa Orsok til Meinlætis þeirra / edur añars Mootgangs/ og brwka svo Myskun Guds til Eblingar Syndaña/svo langt er frá þvi/ ad þeir læte Rijkdoom hñs Þolenmædes draga sig til Yfirunar/ Rom. 2. Meñ hafa a medal vor eina Skrok-Sogu um Barn nockurt/ þad er fiell i Þytt/ og er þad meinte sier Dauda Von/ beidde þad Gud ad hiælpa sier til Lijfsens / eñ er þad slapp wr Dykenu upp a Backañ/ þa seger Æfentyred/ ad Barned hafe sagt: Ecke þarftu/ eg gat / Einfalldleg er Saga þesse/ eñ þo er hun mæltuleg til þess / og þar til mun hun diktud vera / ad giora þeim Kiñroda / sem eru Born i Skynsemeñe / eñ ecke i Hreckvijsseñe/ 1. Cor. 14. Og leita Guds alleina nær þeim æliggur / Eñ añadhvert þacka sier / edur gialldа honū litlar Þacker/ nær þeir slopner eru wr Vandrædunum/ Þetta er Almeñara/eñ Vitne þurfe til ad leida/ Jafnvel hia þeim/ sem hvad best ættu ad vita sijns Herra Vilia/ Luc. 12. Og odrum ad vera til Epterdæmis/er þo mætti Otlast fyrer hinum blessu Slogum/ nær Maler Syndaña er uppfylldur. Til eru þr sm meina/ad Prestarner hafe umsinwed þssū Nyu Gydingū/ og taled þm Trw þar um/

ad

ad JEsus hefde ei giort Jarteikn þssa af Guds Krapte/og þvi hafe þeir ecke aptur horfed. Als var ad sosnu Ills Ven af þeim i þa Daga / Sierdeilis þegar Christur ætte Nluten ad / og var ecke Olykt þvi er hn mætte heyra/ad fyrer Beelzebub ræke han wt Dioflana/ Luc. 11. Þad getur og sked/ad þeir hafe talad þetta fyrer Gydingum/ Londum sijnum/ en ecke hyrdt svo miøg um hin wtlenda Man: Þeim hefur þad i eingu Rwme leged/ þoott han snere aptur til hans/ er þeir kolludu Samaritskan og hefde Diøfulen/ Joh. 8. En Grœtu þessarar er eingen Þørf/ Nolld og Blood er noogu banvænt til ad vekia i oss Syndena / og ad leita oss til ad giora Gude Þacker fyrer Myskun sijna/er þo Daglega uppreisur yfer oss Ræmglætu a hveriu Morgne. A medan þesser veiku Men lœu under Krossenum/þa voru þeir gooder Viner/og aller i einum Flocke/ en þegar DRotten hafde gefed þeim øllum Heilsuna aptur / þa kosuduust hiner Nyu vid þad / ad þeir voru Gydingar/en hin Samverskur/þvi ecke villdu þeir verda honum samferda i Apturhvarfenu til Frelsarans / Þanveg er vort Þacklæte vid Gud/er hvad mest hefur boded ad dÿrka sig med Kiærleikanum/Myskunsemene og Eindrægnene. Þegar Skeinkiare Pharaonis hefur nœd aptur sijns Herra Gunst / þa gleymer han Joseph/ þvi han var Vlendur/Þegar Skullda-Prioofuren/sem ætte 10000. Pund ad giallda/ þegar han er wtgeingen fra Nœs-Fodurnum/sin gaf honu upp alla Skulldena/þa grijpur hn fyrer Kverkar sijnu Verka-Naut/ er honum var miklu minna skylldugur. Svo geingur þad til fyrer morgu af oss! Nafe Gud upphafed ein Vesæling til Heidurs/til Rijkdooms/ til Embættis/ þa vill han ecke kanast vid Brædur sijna/ er skomu adur voru hns Jafningiar/og kan ske hofdu giort vel til hns. Þegar hin Almættuge hefur lagt einhvern under Lijma med nockru Mootlæte / annadhvert Heilsubreste / Femissu / Ofbellde og Oframknum vondra Manna/ er hn lijdur ad plwga a suma/ sem minne Mættar eru/ til ad lypta einhvern/ en lœted han þo rata wr þessu/og selt han aptur i sitt

 Stad/

Stad/þa stijngur hñ bæde Augun wt/ og vill ecke myskuna honū/sem hñ þo sier/ad mæ lijda hid sama/sem hañ mætte þola/og Gud hafde agad hañ med / til ad þeckia Vanmætt siñ/ og Skaparans Giæsku/ og þegar hañ sier Ovin siñ/ er hañ þykest eiga Hefnder ad giallda/þa seger hñ med siælfum sier: Eg skal giora honum/ svo sem hñ mier giorde: Svoddañ er hid mesta Opacklæte. VOru Ecke Tiju þeir Ed HREINsader VOru / Eñ HVAr ERu þa NINer Nijuseger Endurlausnareñ i Gudspiallenu. Betra hefde þessum Opacklætu Mønum vered/ ad Siwkleike þra hefde fylgt þeim iñ til Daudans/ eñ ad þeir yrdu heilbrygder a Lijkamanum / eñ fyrer Vanbrwkun DRottens Giæsku/ a Sælunñe Vanhelser. Þeir skildu sig frá þessum wtlenda Mañe i þvi/ ad þeir sneru ecke aftur til sijns Læknara/og syndu þar med/ ad ei væru þeir af hiñe Osynelegu Guds Kyrkiu/ þoott ad þeir væru Limer hiñar Synelegu/ Svo vil eg segia: Ad þeir / sem eg hier ad framañ hefe talad uñ / er vilia fræskilder vera Christi Lꝼmum / og ecke þeckia þa / þeir eru Stallbrædur þessara Opacklætu Mana/og ecke Limer a hañs Lijkama/sem er Hofud Safnadarens/og ecke einasta geck i krijng/giorde Gott og grædde alla/helldur og leid fyrer Ovine sijna/Jafnvel þa/er hñ siælfer kvøldu. Vier vorum til forna Vtlender / æn Guds i Heimenū/ og fiarlæger Israels Borgar-Rette / svo sem Paulus ad Orde kemst / Eph. 2. Hvert ad þesser nu Gydingar hafe nockurn Tijma aftur nad siñe Andlegre Heilbrygde / Þad veit hañ eiñ / sem alleina veit Tølu siña Vtvaldra Barna: Eñ siæum vier til / Vtlendingaña Syner / ad vier helldur lijkiumst þessum Vtlending / helldur eñ Abrahams Sonum þessum / efter Holldenu / svo,ad Spædoomur Frelsarans mætte rætast a fierhverium af oss / þar hañ sagde: Marger munu koma af Austre og Vestre/og sitia til Bords med Abraham/ Isaac og Jacob/ eñ Rijkesins Syner munu wtrekner verda i hin ytstu Myrkur/Matth. 8. Vier erum ad sañu komner i Stadeñ Gydinga: Svo siñ ad DRotteñ wtrak

Neid-

Neidingiana fyrer þeim/ vegna Synda siña og Stoorglæpa/ svo hefur hñ wtreked þa fyrer oss sokum Nardydgis þra og Vantruar/ þeir eru afbrotner/ eñ vier iñplantader/ svo sem Paulus ad Orde kiemst / Rom. 11. Eñ Gud giefe/ ad fleire eñ eiñ Samaritan fiñest a medal thu Israels Maña/ þad er þeirra/ sem eiga ad vera/ og kalla sig Abrahams Syne epter Truñe. Diogenes Spekingur var eitt Siñ adspurdur/ hver Nlutur ad mest fyrntest a medal Mañaña/ eñ hañ svarade/ Þad væru Goodgiørdernar / þvi mæ ei neita / ad hañ sagde satt/ Dagleg Reynsla kieñer þad : Eñ hverneg sm̄ þessu er vared a medal vor Mañaña Iñbyrdis / þa ætla eg þo / ad Velgiørningar DRottens/og Þacklæted fyrer þa/ þau eiga hiñ skiemsta Alldur hiæ sumumhverium / og eg mæ segia / hiæ allmørgū : Þar um̄ hygg eg þad satt sie/ er hiner Spøku segia : Ad sumer vanþacke þess meir/sm̄ þeir meira skylldugr eru/ sokum þess / ad vier siæum hver añañ / og þar sem oss er eitt siñ Gott giørt/ þadañ væntū vier meira/ þa lætumst vier þacka Moñunum/ecke svo af Hiarta sumerhverier/ svo sm̄ til ad orfa þa til/ ad hallda afram̄ Goodvilldeñe/ þ̄ siest a stundū/ nær þeir eru i einhverium Þrautum stadder / sm̄ hvad best hafa til vor giørt / Eñ Fødur Lioosaña / fra hverium ad kemur øll good Giøf / og øll fullkomeñ Giøf/ Jac. 1. Og allt hvad fra Moñunum kemur/ þad kemur i fyrstuñe fra Gude/Nonum þacka Meñ svo lytit/ af þvi vier siæum hñ ecke/ eñ þreifum þo a hñs Giæsku / hñs Velgiørningū og Dasemduin / hvern Dag / hvern Tyma / og hvert Augnablik / og skal þad nu svo wttalad um̄ þad fyrra.

Nu er sydañ ad tala um̄ Þacklæte Utlendingsins / og hvad vier eigum af þvi ad læra. Drottningeñ af Sudre mun uppryssa og fordæma þessa Kynslod/ sagde Lausnareñ/ Matth. 12. Nun var Framande/og þo dædest hun svo ad Speke Salomonis/ ad Lausnareñ hroosar heñe i þessum Ordū : Eñ øll Salomonis Dyrd var lytel ad reikna hiæ þessu Kraptaverke DRottens/ þvi mæ eg þad segia/ ad þesse

Ute

Vilendske Madur mun geta kiend morgum Atperd Packlætesins vid Gud/ þ medtekna Velgiorninga. Hverneg giører hn̄ þ? Gudspialled seger: Nafn Naþe Prysad Gud med Hiarte Roddu. Loþ seig þu Drott mijn DRottne/ og allt hvad i mier er hans H. Naþne/ seger David/ hvar aþ sia ma / ad hafi vill ad aller Partar Skapnadar vors skule Gud loþa/ a medal hverra ad Raustenn er ecke hin̄ minste. Alla Hlute heþur Gud giort sier til Dyrdar / og til vorrar Sæluhialpar / Oskande være / ad Menn brwkudu þa þar epter. Hvad opt bydur David/ ad Menn skule Gude Loþ syngia? Moyses saung Gude nyann Loþsaung / Maria Syster þeirra Aarons gieck wt og prysade Gud med Bumbum og Hliodþærum/ þegar Gud haþde giort hina stooru Endurlausn sijnu Foolke aþ Egyptalande / Exod. 15. Svo er pad enn nu hia oss bæde skipad og Veniulegt/ad prysa Gud med Psalmum og Loþsaungum/epter Pals Bode/ Col. 3. Ecke sege eg/ ad þesse Samaritan haþe kveded vid Raust / enn þetta / ad hann PRIJSade GUd Med HARRe RDddu / þad minner mig þar a / ad vier lætum Loþsaungva vora ecke alleina vera foolgna i Hlioodunum/ helldur þar med i Gudrækne Hiartans/ þvi hier stendur/ ad hann haþe PRIJSAD GUd/ aþ hveriu audsært er/ ad Hugur heþur Mæle fylgt. Ecke verdur DRottenn med þvi prysadur / ad nalgast hann med Vorunum/ ecke helldur med Raustenne alleina/ hversu sem hun fogur er/ hn̄ vegur Hiartad/ sem er Hiartnanna og Nyrnanna Rannsakare/ giæte þeir þess/ er fara med Andlegar Vysur og Psalma / alleina ad Gamne sier / brwka þær fyrer Ol-Vysur / edur til annars Giælyþis / hygge Menn ad/ hvert ecke er i þessu nockur Gudlastan : J þetta mun þykia lyted spunned / þvi þad er Almennt / enn Gud lætur ecke ad sier hæda / þoott Ordenn sieu good / þoott Dicktureñ fallegur / þoott Raustenn sie væn / þa eru svoddann Loþsaungvar ecke annad enn Nyt fyrer utann Kiarna / Sky fyrer utann Regn / og meir til þess ad styggia Gud / enn ad prysa hann / Vilie Menn þvi syngia Gude Loþ / edur prysa hann med Roddu

sinne/

ſiñe/þa ſynge Meñ eins og Paulus og Silas i Fangelſenu/ Act. 16. Eins z Guds Mooder/ eins og St. Pall um̃ ſig ſeger/ 1. Cor. 14. Eg ſkal ſyngia med Andanum / Eg ſkal og ſyngia med Hugſkotenu/ þad er/eg ſkal lata Hug Mæle fylgia/ an þeſſa er Rauſteñ Onyt til ad pryſa Gud/Miklu betur lætur Þogn Moyſis/ er hañ hroopade til Guds/Exod. 14. Eñ ecke getur um̃/ad nockur hafe ſied hañs Var- er bæraſt / miklu betur þeigiande Grætur Auñu Moodur Samuelis/ og miklu betur Trw og heimugleg Andvarpan hiñar Bloodfallſiwku i hañs Eyrum / ſem Eyrad plantad hefur. HAñ FIELL Til FOOta JEſu/ſeger i Gudſpiallenu: Þetta var hid meſta Audmykt ar Merke: Ad ſoñu plogudu Gydingar ad bidiaſt fyrer ſtandande i Samkunduñe. Tollheimtumadureñ ſtood og badſt fyrer/ſama giørde Phariſæiñ/þvi ſeger og Lauſnareñ / Marc. 11. Nær þier ſtanded og bidieſt fyrer/þa fyrergefed/ ef þier hafed eitthvad a moote nockrum/ ſvo bydur og Paulus/ 1. Tim. 2. Ad Meñ ſkule upphefia heilagar Hendur/þo var þad Sidur Gydinga/nær þeir ſier i Lage villdu audmyk la ſig/ad þeir føſtudu ſier flotum fram̃ fyrer Gud: Þañeñ giørde Joſua/ Joſ. 7. Svo breytte David/ og ſialfur Frelſareñ i ſiñe meſtu Angiſt. Audmykteñ geingur undañ Vegſemdeñe/ſeger Salomon/ Prov. 15. Eingeñ Hlutur er Gude þægare/ eñ eiñ oudmiwkur Ande. J vorre Audmykt miñteſt hañ a oſſ/ſeger David/ Pſ. 136. Ja/ hñ lytur a Tal hins Audmiwka / og forſmæer ecke hañs Bæn / ſeger hañ eñ apfur/ Pſ. 101. Hverſu vel þocknadeſt Gude Audmyckt Abra- hams/er hañ ſagdeſt vera Dupt og Aſka / Auñu Hwefrw Elkanæ/ Gedeonis/ er hañ ſagdeſt vera hiñ Miñſte i ſyns Fødurs Hwſe/Jud. 6. Þad ſtendur faſt ſem Salomon ſkrifar/ Hinum Dramblata fylg- er Nydurdreped a epter/ og þañ ſem audmiwkur er i Anda/mun Veg- ſemdiñ upphefia/ Prov. 29. Og þvi ſkyllde Mañeſkiañ ecke audmykia ſig fyrer Gude / Eiñ Syndare fyrer hinum Heilaga / Eiñ Ormur fyrer Konunge Himens og Jardar/Eiñ Skullda-Þrioolur fyrer þeim

er Daglega uppgefur honum svo morg Tku Þusund Punda/ hvers Giæska ad er hærre en Himenen/ hvers Reide ad brenur alli til nedsta Helvijtis yfer hinum Dramblætu / hver ed Volldugum hrynder af Stoole/ en Lytelætum giefur hn̄ Nad/ Og hversu eru Men̄ ecke audmiwker i anara Mana Augsyn/ jafnvel a Stundum fyrer ein̄ Bita Brauds/ O hvilijk Lotning ber þa honum/ sem Daglega upplykur sijne millou Hende/ og sedur allar lifande Skiepnur. GJORande HOR um PACKer / seger i Textanum. Þesse pramande Madur hafde ædur synt DRottne Gudlegan̄ Heidur / þar han̄ fiell til Foota honum/ hvad Gude alleina tilheyrer/ jafnvel þoott sumer Veralldar Hofdingiar hafe læted sig svo Tigna/ einkum Persana Konungar i Fyrndenne/ þvi ecke villde Eingillen̄ taka slijku af Johañe/ Er han̄ sagde: Sia til ad ei giorer þu þetta/ tilbid þu Gud / Apoc. 19. Nu fyrst han̄ þeckte hn̄s Guddoomlegan̄ Krapt og Ualld/ þa offrar hn̄ honum Þackargiordeñe. Svo sem eingen̄ Hlutur meir styggir Gud en̄ Opacklæted/ hvar um̄ ædur er nockud talad/ Svo er og Þacklæted hn̄s Kiærasta Skattur/ og snart ad segia/ sa einaste/ af Moñunum/ þvi ad þesse Skyllda æ ad skyna sig i ollu þvi/ er vier leitumst vid ad giora Gude til Þocknunar/ þar fyrer seger Paulus: Allt hvad þier giored med Orde og Verke/ þad giored i Nafne JEsu Christi / og þacked Gude og Fodur fyrer han̄/ Col. 3. Þacklætenu er svo vared/ nær þad framkiemur af Elskuñe til Guds/ og trwudu Hiarta/ ad þad ecke eine asta gielldur Gude undanfarnar Velgiorder / þvi an̄ad heimter han̄ ecke/ helldur og bydur odrum heim af hans Myskunar Hende/ Ecke þryter hia honum/ ef oss þryter ecke þad sem hn̄ hefur æ oss skiled/ og syndugum Mane er hægast wte ad læta / sem er audmiwkt Þacklæte. Et eg nockud Kiot hina sterku Uxana/ edur dreck Blood Hafrana? seger Gud fyrer Davids Mun / Ps. 50. Offra þu DRottne Lofgiordeñe / og gialld hinum Hæsta þyn Heit / og er Mañeskian̄ nærsta Hyrdu lytel um̄ syn eigen̄ Efne/ ad hun ecke skule leggia allan̄

Hug

Hug ꝏ þetta/þar Gud krefur ſoo lijtels Hlutar af hende/i hveriu hende ecke einaſta eru eingenn Vilꝏt / helldur er þad i ſiꝏlfu ſier hid meſta Yndꝏle / þeim ſem vordenn er eitt Ande med Gude/þad er ſa Fognudur i heilogum Anda/ſem vier eigum ad byria hier fyrſt i Guds Nꝏdar Rijke/enn ſijdann ſkal fullkomnaſt i Dijrdenne/ þegar þad tekur Enda ſem Hꝏlfverked er/ þvi þad mun i hinne eilijfu Sꝏlu verda hid meſta Epterlꝏte Guds Barna / ad lofa hann og þacka honum fyrer allar hanns Dꝏſemder og Velgiorninga/hverta vier þa fyrſt þeckium/ ſvo ſem vier þeckter verdum / enn hier ecke nema ſvo ſem fyrer Speigel i Rꝏd-Gꝏtu/ 1. Cor. 13. Nu er þad ecke nog/ ad Menn giore Gude Þacker med Munnenum alleina/ Hiartad ꝏ med ad fylgia. Hverſu ſkielegar Þacker ad Madur þeſſe hafe giort Frelſaranum/ þad ſyna oſſ Ord DRottens / er hann ſagde: ÞJJn TRwa GJORde ÞJg HOOLÞenn. Og ecke einaſta ꝏ Þacklꝏted ad framkoma af Hiartanu/ þad er liett fyrer þann/ ſem hugleider / ad hann er Gude umm Sꝏl og Lijf ſkylldugur / ad þacka Gude af Alvoru/ helldur ꝏ og Gnꝏgd Hiartans ad brioottaſt wt med Verkenu i Betran Lifnadarens/ i Jdkun hinna beſtu Dygda og Mannkoſta / og ollu þvi er vier Gude þocknanlegt vitum vera/ þad bijdur Paulus/er hann ſeger: Epter þvi Chriſtur er dꝏenn fyrer alla/ þa er þad riettvijſt/ ad vier ecke framar ſkulum lifa ſiꝏlfum oſſ/helldur honum ſem fyrer oſſ er dꝏenn/ 2. Cor. 5. Enn þo ꝏ þeſſe Vidurkenning Guds Giꝏſku hvad meſt ad lꝏta ſiꝏ ſig i Miſkunar Verkunum/vid þa ſem bera DRottens Kroſſ. Frelſarenn ſꝏ Aumur ꝏ þeſſum veiku Monnum / og lꝏknade þa / Gior ſlijkt hid ſama/vert Miſkunſamur/ſvo ſem hann var Miſkunſamur/ og nꝏr þu ſier þvilijkt eitt lifande Hrꝏ/ þa hugꝏ til þeſſ/ og lꝏt ſiꝏ þad i Giorningunn/ ad þu vidkannieſt/ ad þu ert i Skijnenne hreinſadur af hinne Andlegu Lijkþrꝏ Syndenne / ſem er ollum Siwkdoomum ſkiꝏdare. Minn HErra JEſu / Eg hefe ecke Glede af vockurs Mannſ Hormungu/ nema hinne/ Hvar fyrer? Þviad allra Manna Harmkvꝏle eru Straff

Syndareñar / eñ nær eg sie / ad þeir eru tyꝼtader / eñ eg em heill og hraustur / þa kemur mier i Hug / ad eg heꝼe hid sama ꝼorskulldad / Eg / sem ad er hiñ meste a medal Syndarañá / Eñ þegar eg allÿt hÿgnar Hørmungar / Morteñ miñ / er þu ecke haꝼder ꝼorskulldad / eñ leidist þo Saklaus miña vegna / þa stend eg upp med þessum Utlending / þa hressest Hugur miñ / þar eg trwe / ad mÿnar Illgiørder sieu þar ꝼyrer kvittar / ad Gud heꝼur lided i Holldenu / Svo GIører Mÿn TRua MIG HUGGAÑ / og þess ꝼullørugga / ad þiñ Himneskur Fader heꝼur kastad Syndum mÿnum i Haꝼsins Diwp / svo þeirra Miñing kome ei upp ad Eilÿꝼu. Þier med honum / asamt heilegum Anda / sie Vellde og Kraptur / Dyrd og Heidur / um̃ Allder Allda / AMEN.

# Fimtanda Suñudag epter Trinitatis.

## Gudspialled / Matth. 6. Cap.

A Þeim Tÿma. JEsus sagde til sina Lœresveina: Eingeñ kañ tveimur Herrum ad þioona. Añadhvort hañ aꝼræker pañ eina / og elskar hiñ añañ / eda hañ adhillest pañ eina / og ꝼyrerlÿtur hiñ añañ. Eige gieted þier Gude þioonad / og Mam̃ona. Þar ꝼyrer seige eg ydur. Vered eige hugsiwker ꝼyrer ydru Lÿꝼe / hvad þier skulud eta og drecka / og eige helldur ꝼyrer ydrum Lÿkama / hvoriu þier skulud klædast. Eda er ecke Lÿꝼed meir eñ Fædslañ / og Lÿkameñ meir eñ Klædnadureñ? Lÿted a Fugla Him̃ens / þeir ed hvørke sa nie uppskiera / og ecke helldur saꝼna þeir i Kornhlødu / og ydar Himneskur Fader hañ fæder þa. Eda erud þier ecke miklu framar eñ þeir? Eñ hvør ydar giętur med sine Ahyggiu auked eirne Aleñ vid sÿna Leingd? Og hvar til erud þier hugsiwker ꝼyrer Klædnadenum? Hygged ad Akursins Liliu Grøsum / hvørneñ þau vaxa / þau viña ecke nie spiña. Eñ eg seige ydur / þad Salomon i allre sine Dÿrd / var eige so skrÿddur sem eitt aꝼ þeim. Og eꝼ Gud klæder so Grased þad i Dag er a Akre / og a Morgun verdur i Oꝼn

kastad /

kastad/ Skyllde hañ ecke miklu framar þad sama vid ydur giøra/ O þier Lijtelltrwader? Þar fyrer skulud þier ecke Hugsiwker vera/ so seig iande: Hvad eigum vier ad eta eda hvad eigum vier ad drecka / eda med hvøriu eigum vier ad klædast? Þviad epter þessu ollu leita Heidnar Þiooder. Og ydar Himneskur Fader / hañ veit ad þier þurfed alls þessa vid. Þar fyrer leited fyrst Guds Rijkes/og so hñs Riettlætes/og mun ydur allt þetta til-leggiast. Fyrer þvi skulud þier ecke Ahyggiu bera fyrer Morgundeigenū/þviad Morgundagureñ mun fyrer sialfū sier Vmhyggiu bera. Hvøriū Deige næger sijn Þiꝑning.

# Exordium.

Þott ad Hugur vor sie hin dæsamlegasta Skiepna Guds und er Sooluñe/þa getur hønum ecke tvijskipt vorded/til ad ræk-ia þa Hlute/sm̄ gagnstæder eru hver ødrū/sov er hñ kreinktur aꝼ Spillingu þre/ sem vier epter Adam erꝼdum / Eñ ædur eñ Bondskañ iñkom i Heimeñ/ þa var eckert Gude mootstædelegt/allar Skepnur hlijddu hønum/ þad var allt harla gott/er hñ skoop/ Illskañ ein er hønum Ohlijdeñ/og þeir Hluter/ sem aꝼ heñe framkoma/ hverra Hoꝼundur ad Dioꝼulleñ er / og hañs Þienare hiñ Gudlause Heimur þesse. Medal Guds og hañs/er eilijꝼur Fiandskapur stadfestur/sijdañ hñ var wt wr Himnenum rekeñ/ svo er og Heimureñ/þvi seger Jacob/Cap. 4. Hañ/sem er Heimsins Vinur/hañ gioreſt Guds Ovinur: Nægra er Vatne og Vidsmiøre samañ ad blanda/eñ þssa ad forlijka/ svo ad hverugs Þienarar geta añars vered/ þad vill Frelsarēñ kieña oss i uppleſnu Gudspialle/ er hñ seger: Ad EINGeñ Kuñe TVeim HERRum Ad þJOna / Og Ad VJer GETum Ecke VNDer EJns/ÞJONad GVDE/Og MAMMona. Þetta Ord MAm̄ona/þijder Abata/ epter sumra Vijsenda Mañа Vilegg ingu/ Eñ allskonar Rægter og Fullsælu Fiær/ epter sumra: Hun er ad sōñu stoor Guds Gæꝼa/nær hun er aꝼ hønum þeigeñ/og ecke aꝼ Fiandanum edur ad hñs Rædum wtvegud/ brwkud edur medfareñ: þvi

Paral. 12. Eñ þegar þier withelled ydar Tarum fyrer Gude/ſiñ Þeck
ing Syndaña hefur kreiſt wt af ydar Augum / Þa mun hañ Endur-
næra ydur med þeim Himneſku Vatns-Straumum / ſem fram̃ fliooka
af Stoole Guds og Lambſins/ Apoc. 22. Hver ſem þar af dreckur/ hñ
ſkal ecke ſmacka Daudañ ad Eilifu. Komñ þui til þeſſarra Val-
na/gegnum þeſſu Tilbode/ Komum og kaupum fyrer alls Eckert/ bæ-
de Vijn og Miolk/ Eſa. 55. Og þoolt ad Angiſt Syndaña kuñe
ad þrijſta ſvo mieg ad Hiarta Syndarans/nær hñ ſtendur under Ran-
ſake Samvitſkuñar / ad hañ telie ſig Overdugañ Guds Nædar / þa
gior ei þijnum Frelſara hañ Orett/ad þu efer um̃ hañs Guddoomlega
Myſkun/ſem er eins ſtoor og hañ er ſiælfur/ hverſu ſem þu ert hinum
verſtu Syndum hladeñ/ef þu ydraſt af Hiarta/og lætur af þeim/hver
ſem þad efar / þad er eins og hñ vilde ſetia Chriſt af Tign ſiñe/ þui
hñ er þeſſ vegna Konungur vor Syndarana / ad hñ hefur ſigrad vora
Ovine/eñ keypt oſſ Gude til Handa med ſijnũ Dauda. Seg mier/ hvad
ſkal ſa hafa til ad bera/ ſem einum ſkal Myſkuna/nema Mætteñ og
Viliañ? Eñ um̃ hvert-tveggia þetta tekur DRotteñ allañ Efa fra
Syndaranum i þeſſu heilaga Gudſpialle. Fyrſt ſeger hañ: Aller
Hluter eru mier Ofurgefner af mijnum Fodur: Þetta talar Chriſt-
ur epter Mañdoomenum/Þui epter Guddoomenum er hañ Siælfrææde
allra Hluta/ Fra Eilijfd til Eilijfdar / med Fodur og heilogum An-
da: Eñ fyrſt honum er allt Walld gefed/bæde a Himne og Iordu/af
honum ſem þad alleina hefur/og ſem alleina kañ ad fyrergefa Synd
ernar/þui ſkyllde hñ þa ecke kuña ad tilgefa þier þijnar Synder/ hverſu
ſem þær ſtoorar eru og Andſtyggelegar/ nær þu hatar þær/og villt af
þeim lata? Hañ ſagde fordum þegar Iudar hneixluduſt a þui/ad hñ
ſagde vid hiñ Halfvijſna/ Þier eru þijnar Synder fyrergefnar/hvert
er lettara ad ſegia/ þier eru þijnar Synder fyrergefnar / edur ad ſegia
Statt upp og Gack? Matth. 9. Mik HErra JEſu/ meira koſtade
þig þad/ ad Endurſkapa mig af Andſkotañs Vanſkapadañ/ helldur
eñ

eñ ad skapa honū Heilsuna / sem þu hafder i Fyrstune i Moodurlijfe skapad/ eñ fyrst þu synder med þessu Kraptaverke/ ad Mañsins Sonur hefde Magt til/ad fyrergefa Synder a Jordu/þa get eg ecke Efast uñ/ ad þu kuñer mijnar Synder ad tilgefa / hverju sem þær fwlöar eru: Þu sem sagder til ens Nalþvisna: Statt upp/tak Sæng þijna og gack i burt/ Matth. 9. Eg veit og ad þu gefur hjalpad mier med Nꝍd þijns Anda/ad rijsa upp af þeim Syndañā Bed/ er eg svo leinge hefe sofed a. Gud er alleina sa/ sem Dasemdarverkeñ giører/ Ps. 72. Hañ er og sa alleina/ sem tilgefa ma Syndena: Hvertveggia giørder þu hier/ DRottiñ miñ/ þvi get eg ecke uñ Valld þitt efast/ Eñ uñ Viliañ miklu sijdur / Þvi hañ seger hier i Gudspiallenu: KOMed TIL Mijn ALLer. Þa veit eg ad þetta Tilbod nær og til mijn/ Þoott eg være syndugre eñ aller Meñ / þegar eg Erfida i Þeckingu og Jatuingu Synda miña/ i hveriam þu miñ Frelsare hefur Erfidad/ Esa. 43. Þegar eg var þiñ Ovin/ Rom. 5. Þvi þu seger: KOMed Til Mijn ALLer ÞIer Sem ERFided / og þegar eg styn under Þunganū/ er þu barst miña vegna/þegar Negningeñ la a þier/ eñ eg vard heilbrygdur fyrer Beniar þijnar/ Esa. 53. Þvi þu seger: KOMed Til Mijn Sem ÞUnga Erud ÞIader/ Til hvers? Ecke til þess/ ad skipa mier ad borga hiñ sijdarsta Pening/ þvi Gud hefur fyrer þijna Skulld uppgefed mier alla Skulldena: Ecke til þess / ad eg læse þier þa Handskriftena er þu hefur a Krossen neglt / Col. 2. Helldur til þess/ ad þu taker a moote mier fagnadre Mañeskiu/svo sem Faderen vid hiñ Auma Syne/er sitt Arfleifd sooad hafde/Luc. 15. Þvi vil eg Allshugar fegeñ koma / O HErra JEsu/ og þvo Fætur þijna med Tarum mijnum / og smyrta þa med Angre mijns Hiarta og Elskuñe til þijn / er mier hefur svo margar Synder tilgefed/ Luc. 7. Ef eg þess verdugur verda mætte fyrer þijna eigeñ Forþienustu. KOmed Til Mijn Aller ÞIer Sem ERFided/seger Brudñr Giæstuñar/Þetta mætte tilhefra jafnvel hinum allra heilogustu Moñum/

Not

Noe/Abraham/Job/Eliæ/Johañi Baptistæ og jafnvel Guds Mood ur siælfre/Soo Heilagur er Gud/Soo er hañ Rettlætur/ad hañ mæ ei lijda hid minsta Grand a Mañeskiuñe/æn fullkomens Endurgiallds fyrer Syndena/ eñ þad verdur ei golldet nema i Christi Forþienustu/ ꝛ af heñe hafa Meñ eingeñ Not/utañ Meñ ydrest Syndaña af Hiarta/Eñ ad ydrast Syndaña kostar þañ alltijd nockurt Erfide/ sm̄ þeck er Guds Hætign og siñ Veikleika/þar fyrer skulu hñ aller Kvittunar bidia / Ps. 32. A þeim Tijma nær Reikningureñ skal halldast/ fyrer þvi hræddest Job øll sijn Verk/ Eñ ef hañ hræddest þau og jafnvel hin bestu/þa mun þm̄ Guds Mañe þookt hafa/ad hñ þyrfte Ydranar vid/hver alldrei geingur Erfides laust af/ eige hun Gude ad lijka/ Þar um̄ ber lioosast Vitne hñs sijdarsta Jatning fyrer honū/ Cap. 42. Eg straffa siælfañ mig/og ydrast i Molld og Osku: Þetta sagde Job/ um̄ hvern Gud vitnade a moote Satan/ ad ei være hañs Lijke i Landenu / ad hañ være fullkomeñ / Rettvijs/ Gudhræddur og fordadest þad Vonda/ Job. 2. Hvar af Meñ siæ/ad þad satt er/sem Pall seger/ Ad allur Heimureñ sie fyrer Gude Sakfalleñ/ Rom. 3. Og ad eingeñ sie svo Heilagur/ad hañ ecke Allshugar fegeñ mege taka þessu Nædarfulla Lausnarans Tilbode/ Eñ þar miñ Herra seger: KOmed Til Mijn Aller ÞJer Sem ÞUnga Erud ÞJAder/ þa kalla eg mier boded med þessare Gudlegu Raust/og ollū Stoorsyndurū/sm̄ mikeñ Part Æfe siñar hafa i Þrioctskuñe ꝛ Glæpunū aled/eñ fyrst hñ hefur þ talad/ hvers Blood ad hreinsar oss af ollū vorū Syndū/ 1. Joh. 1. Hñ s er Forlijkun f allar Veralldareñar Synder/1. Joh. 2. J Krapte þeirrar Foornar / i hverre Gud forlijkade Heimeñ vid siælfañ sig / 2. Cor. 5. Þa get eg ecke ætlad/ad hañ sem alleina er Sañordur/Rom. 3. Ad hañ mune spyrna mier syndugum Orme i burt af Skor Foota siña/nær eg þar ligg med sañre Ydran/ og fullum Asetninge til Yferbootar/þvi skylda eg þa læta mijnar Illgiorder ꝛ bloodug Afbrot hindra mig fra/ad taka þessu Stærstufulla Tilbode mz hinū mesta Fognude

mijns

mijns angrmda Hiarta/ J þssu styrkia mig hans Blessudu Fyrerheit/ þar han svared hefur/ ad han ei vilie Syndarans Dauda/ helldur ad han snwe sier og life/ Ezech. 33. Vm þetta taka allan Efa fra mier þau Dyrmætu Ord/ er han talad hefur/ ad han ville eingan fra sier reka þan sem til hans kemur/ Joh. 6. O/ þvi skyllde eg vera þa svo Myskunarlaus vid sialfan mig/ ad eg ei skyllde leita hans Nadar/ þar eg veit han er svo Myskunarsamur? Þad er kunugt hversu ad Juda hafde reitt DRottenn til Reide / og hversu ad han neyddest til ad reka þa wt wr þvi Landenu/ er han hafde gefed Fedrum þeirra/ En þegar han hafde teked þa i Sætt aptur/ þa seger hin eilijfa Giæska/ Zach. 10. Eg skal Myskuna þeim/ og þr skulu vera eins og eg hefde þeim alldrei burt kastad/ Svo langt er fra þvi/ ad Gud tilreikne sannydrande Manne drygdar Synder/ þegar han snyr sier til hans af ollu Hiarta/ og þott svo mege tilbera/ ad DRottenn legge a þig Tijmanlega Refsing/ christenn Madur/ þu sem a JEsum trwer/ fyrer undanfarnar Synder / til þess/ ad þu ecke meiner þig Saklausan ad vera / þa lat þier ei Hugfallast / Edur ætla ad han mune burtreka Eilijflega. Valla nockur Þiood i Heimenum hefur svo þwngre Hegningu sætt af hns Vollduge Hende/ svo sm hns Frumgetenn Sonur Jsrael/ Exod. 4. Vm nockra Stund / Og þo seger Fader Myskunsemdanna/ Jer. 31. Heyred þier Ord DRottens/ O þier Heidingiar/ og kunngiored þad i fiarlægum Londum/ og seged/ han ed sundurdreifde Jsrael/ han samansafnar honum/ og vardveiter han svo sem Hyrder Hiord sijna/ þvi DRottenn Endurleyser Jacob / og frelsar han af þess Hende sem er sterkare honum. Þacker sieu þier/ þu Dyrdarennar Konungur/ ad þetta Fridar Bod er og komed til vor þinna Aumustu Vesælinga/ sem bwum a Hala Veralldarennar / þvi viliu vier Allshugar fegner heyra hins Gooda Hyrders Raust/ sem til sijn bijdur ollum þm Sem ERFide DRYgia/ Og þVnga Eru þJAder. Hver er sa Þioon/ ef hn misbrijtur nockud vid sinn Lanar-Drottenn/ og hafe hn nockra Aru-

 Taug

Taug i sier/ edur hyrde um̃ Velferd sÿna/ ad ecke leite hñ Sætta til hñs a alla Vegu/ sierdeiles ef hñ æ Fyrergiefningar Von. Nu þoott vier a hværre Stundu/ hvertu Augnablike/ styggium DRottenn Himens og Jardar / Þvi skylldum vier þo ecke samt leita Forlÿkunar hia hønum / er vier vitum ad er svo audvelldur ad taka vid Syndaranum/ ad hañ seger/ Zach. 1. Snwed aptur til mÿn / og skal eg snwa mier til ydar. Hier þarf ecke Joab ad brwka Vÿsdooms Konuna af Thechoha til ad frida fyrer Absalon hia David/ 2. Sam. 14. Ecke þarf hier Paulum til ad sætta Onesimum vid Philemonem/ Philem. v. 10. Eñ hier er JEsus Christus Gud og Madur/ Sa einaste Medalgangare millum Guds og Mañа/ 1. Tim. 2. Hañ seger i Krapte þss Vm̃bods/ er hñ hafde af hinum Alvallda Konunge/ til ad sætta Mañkynid vid hñ z sialfañ sig/ Hañ seger med fullu Myndugleika: KOmed Til Mÿn Aller Þier Sem ERFided Og ÞVNga ERud ÞJAder/ Eg Vil ENDurnæra YDur. Þad er eitt mıked Fyrerheit / sem Gud giefur Jacob edur Israels Hwse/ Jer. 30. Hans Høfdinge skal af hønum koma/ og hañs DRottnare skal af hønum fram̃ganga/ hverium eg biooda mun ad hañ Nalægest mig / þvi hver er sa / sem þore ad lofa sier i sÿnu Hiarta/ ad hñ vilie nalgast mig/ seger DRottenn. Hver er sa Høfdinge ? Þad ertu/ Dyrdareñar Konungur/ JEsu Christe. Hver er sa DRottnareñ ? Þad ertu Guds og Mariu Sonur/ þu sem af Meyar Lÿfe ert wt geingeñ/ af Lÿfe Doottur Jacobs/ iafnvel þoott þiñ Vtgængur sie þo fra Eilÿfu/ Mich. 5. Hverium eg mun biooda til mÿn ad koma/ seger DRottenn/ þvi skal hañ til þÿn koma / O HErra ? Hañ sem er i þÿnu Skaute fra Vpphafe Eilÿfdareñar/ Joh. 1. Og epter Mañdoomenum er hañ sa Madur sem þier nærstur er/ Zach. 13. Vor vegna hefur hañ nalgast þig/ O Gud/ sem fiarlæger vorum/ langt fra þÿnu Auglite / og fra Vellde Dÿrdar þiñar / Eph. 2. Hverium kasta ætte i hin ytstu Myrkur. Vor vegna er hañ þier nalægur vordeñ/ svo sem Neñemadur epter Skickan

Melchis

Melchizedechs/ Ebr. 5. Inngeingen i þad Allra Heilagasta/ i Himenen fram fyrer þig/ med Eina Foorn/ ad ævegadre eilijfre Endurlausn/ Ebr. 9. Hver er sa/ sem þyrde ad loþa i Hiarta sijnu/ ad han villde nalgast þig ? Hver villde taka sier þan Hiedur til? Eingen syndugra Manna. O DRotten/ Hvad munu Halm. Stræen bwa vid eirn forbrennande Elld ? Edur Ryked vid Stormen aþ Eydemorkunne ? Hvad Leyren vid Jarn. Spijruna? Hvad Vatns. Boolan/ Hvad Guþa Jardarennar vid Reidarslög Himensens ? Han einn/ Han einn ma þig nalgast/ fyrer hverium Troonarner og Magtarvollden skialþa/ og hn tilbidia / Ebr. 1. Hver alleina i Himenen uppstijgur / Mansens Sonur sem oþan er stijgen aþ Himne/ og þo æ Himnum/ Joh. 3. Og med Honum munu uppstijga aller þeir sem han heþur med sier dreged / þa han upphaþen var/ þad eru aller ydrande Syndarar/ Aller Þeir Sem ERFida Og ÞUnga Eru ÞJAder/ Ja/ aller þr sem trwa a Naþn Eingetens Sonar Guds/ Act. 10. En þss er ad giæta/ Brædur mijner/ ad þessu Nadarþulla Tilbode fylger Skilmaale nockur. TAKed A YDur Mitt OK/ Og LÆRed Aþ MJer/ Þvi Eg Em HOGvær/ Og Aþ HJarta LJTElatur. Eg vil nu i þetta Sin ecke tala margt um OK DRottens/ er sier i Lage neþnest hans Kross/ og er innefaled i Mootlætingum þssarra Tijma/ helldur vil eg tala um þad/ sem hlijder þvi Eþne/ er eg i Ondverdu hooþ um ad tala/ sm i tveim Hlutum er foolged / Þad er i Fyrstu ad plaga Saalu sijna med Hræsnesfulre Jatningu/ og Tilfinningu Syndarennar/ hvar aþ Ydranen sprett ur. Og i Anan Mata/ ad Krossþesta hin gamla Manen/ Rom. 6. Er sig fordiarþar i Girndum Villudoomsins/ Eph. 4. Þesse Krossburdur er Gude hvad kiærastur/ og eþ Manneskian temde sier hn Daglega / þa munde þad aþstijra morgu Ulvorles Mootlæte/ Jaþnvel þo DRotten a Stundum virde sijna bestu Astvine med Teikne sijns Sonar. Vier skomunst vor ad sønu/ ad jaata Synder vorar fyrer Monnunum: Vier dylium þær hvad mest vier kunum/ jaþnvel fyrer þeim

 sem

sem verre eru eñ vær (nema þr sem Dioþulleñ heþur svo bared Sigg i/ ad þeir haþa mist alla Tilþiñingu/svo þeir stæra sig aþ Glæpuñi:) Og þad velldur þvi/ad Syndeñ er svo lioot/ad jafnvel marger þeir sm̄ Ohlutvander eru/hafa hana og lasta a ødrum/ Eñ þvi munu Meñ vilia dylia hana þyrer Gude/eins z aller Hluter steu ecke berer z nakt er þyrer hønum? Ebr. 4. Eñ þetta giørum vær ecke einasta/nær vier ecke jætum Syndernar/helldur og nær vier ecke rañsokum þær/ Leitū ecke epter þeim Smæsmuglega i iñstu Filsnum vors Hugskots/og ecke ydrumst þeirra aþ Hiarta/nær vier høfum þunded þær. Eñ þvi dyl- ium vier Stwkdoomeñ þyrer Læknaranum? Edur Þorþena og Van- mætteñ fyrer hønū/sem er alleina Riskur? Þyrmer þu sialfum þier/þa mun hñ þier misþyrma/ ef þu hylur/ þa mun hñ opeñbera/ þvi skyllde eg ei vilia ængrast fyrer hønum/sm̄ gledst af þssu Angre/og vill mier þad launa med þusundfalldre Glede/ þvi eg vil Endurnæra ydur/ seger Lausnareñ: Þvi mun eg skyrrast vid ad jæta Synder mijnar i Augsyn Heilagra Eingla/ þar meire Glede er i Himneñū yþer einū Syndugum/sem Ydran giører/ eñ yþer Nÿu og Nÿutige Riettlætum? Luc. 15. Meñ haþa alldrei heyrt/ad Gud hafe deilt Jll-Deilū vid eirn Sañydrande Vesæling/eñ um̄ hina seger hñ/Jer. 2. Eg skal þrætta vid þig/aþ þvi þu seger: Eg hefe ecke syndgast/ eñ hvar med þrætt- ar hañ? Ecke med Ordum toomum/ ecke med Overgmæls-Hlioode/ svo sem Spæmadureñ ad Orde kiemst/ helldur med Drepsoott z Mañ- dræpum/ Ezech. 38. Og jafnvel med Ylþre z Tañagnistran vid þa/ sm̄ ecke skipast vid þetta Nædar-Tilbod. Þar þyrer/Brædur Mijner/ þess betur sem vier þeckium Guds Fødurlega Giæsku / i þvi/ ad taka vid Syndaranum/nær hñ ydrast / og þess meire Hæska / sem vier vitū oss bweñ vera/nema vier ydrumst: Þess helldur leggium allt Kapp a/ ad bleyta vor Hiørtu þyrer Gude/svo Heilagur Ande fæe þar iñebwed/ æn hvers vier ecke getum til JEsum komest / svo sem vier medkeñum i vorre Trwarjætningu/og er þ ecke noog/ad ængrast fyrer Syndernar

um̄

um̃ Stundarsaker/þad er eins og Elldur i Sinu Hlaupe/ad lata sier volgna nockra Stund um̃ Hiartaræturnar / nema Ydranen verde oss svo sterk/ad vier höfum þær Syndernar/er oss mdur haþa hvad kiærastar vered. Hvad gagnade þad hinum Vollduga i Jerusalem/ad þeir gæþu lausa Þræla sijna og Ambætter/ Þegar Nebuchadnezar haþde lagst um̃ Borgena/en hneptu þau aptur i Þrældoom/nær hn̄ var burtvikenn um̃ Stundarsaker? Jer. 34. Eins er þeirra Manna Ydran/sem græta Synder sijnar fyrer Gude/en hverþa þo aptur til hinna sömu: Soddan Ydrun fordæmer Manneñ meir / en aþsakar / Þvi hun syner þad / ad han̄ heþur þeckt Syndena / Og vill þo ecke aþ henne lata. DRotten heþur kent syndugum Manne eirn Skriptagang hia Jerem. Han̄ skyllde oss alldrei wr Minne falla: Þier skulud haþa Leida a sialþum ydur fyrer ydar Ranglætinga Saker/og skam̃ast ydar fyrer ydar Sokvirdingar / Og blygdast fyrer ydar Vegu. Eþ Menn lietu sier þetta Hugþast vera/ þa mundu þeir ecke lata sier þykia svo vænt um̃ Syndena/ ad þeir vellde sier i henne aptur strax/ sem þeir eru geingner fra Prestsens Knium. Good Vppbyrtun er þad ad sonnu/ad ausa wt Hiarta sijnu fyrer Gude med Jatningu Syndanna/ og ecke skedur þad nema fyrer Verkan Heilags Anda: En Ste. Pall aminner þa i Tessalonica/ 1. Tess. 5. Ad þeir ei skule slockva Andann/og mun han̄ þ viliad haþa öllū sagt/ Hrygged ecke heilagann Anda Guds/ J hversum þier Innsiglader erud til Dags Endurlausnarennar / seger han̄ / Eph. 4. Hvar aþ audsært er / ad Madur kan̄ med Apturhvarþe til Syndarennar ad fæla Guds Anda fra sier/ Eins og Dwþurnar fly a Reykenn/Svo flyr Guds Ande Syndsamlegar Huganer/en þegar heilagur Ande er burtvikenn / Hvad liggur þa fyrer Vesælle Manneskiu? Ecke annad en fyrer Saul Konunge / 1. Sam. 16. Ad þegar Gud took sinn Anda fra honum / Þa buste yþer han̄ Guds vondur Ande/ Ja / Ecke annad en ad einn Ohreinn Ande tekur Sio adra Anda sier verre/ og hverþur aptur i Hwsed sitt/ hvadan̄ han̄ kom/ Og verdur svo

þess Mañs hid Sydara argara hinu Fyrra / Luc. 11. Ja / þad kañ ad koma þar/ad sa sm̃ svo tydt forsmaaer Anda Naadareñar/Ebr. 10. Ad Gud verde honum svo reidur um̃ sider/ad hañ yfergefe hañ i fraleitt Siñe / Eins og Paull talar um̃ Heidingiana / Rom. 1. Þad er Malshaattur Guds optlega i Ritningunñe/ad þegar Mañeskiañ lætur sig angra Syndena/þa vilie hñ ydrast þess Illa/er hñ hugde ad giora þeñe/ Eñ þesse Fodurleg Giæska Hins M[illegible]nsama Guds/sem atte ad draga oss til Ydrunar/ hun ablar mørgum Dæra eñ meire Hverwdar/ svo þeir hverfa aptur til Spysunar/sem Petur ad Orde kiemst/ 2. Pet. 2. Af þvi Gud hefur svo tydt forlaated þeim Syndena/ Eñ siae þeir til/ sem þañeñ hafa vaned sig til ad misbrwka Guds Þoleñmæde/ad ecke verde þeim sagt eins og Jerusalem: Þu hefur yfergefed mig/Þu ert a bak aptur horfeñ/þar fyrer vil eg wtrietta mijna Hond a moote þier/til ad farga þier/Eg em vordeñ þreyttr af ad ydrast/Jer. 15. Gud giæfe/ ad þeir sem Einuñe hafa smackad hid Gooda Guds Ord/og Krapt epterkomande Alldar/ þeir villdu Hugleida hvad miklu yndæle er/jafnvel sw Hrygd/sem ad er epter Gude/ 2. Cor. 7. Helldur eñ aliur Heimsins Munadur / Þegar hañ geingur sem hædst / þvi ef hid heidna Skælld seger / ad þar sie nockur Wellyst i þvi ad græta / Hvad mun ei þeim þykia/sm̃ Ande Fagnadarens þressar Tareñ wt af Augunum. TAKed A YDur MJtt OK / seger Frelsareñ hier i Gudspiallenu / ÞWi MJtt OK Er SÆtt/ Og Mijn BYRDe Er LJett. Eg vil ecke i þetta Siñ tala svo eigenlega um̃ Kross-Byrde DRottens i Wtvortis Mootlætingum/ og þa Hugsvølun hins Gooda Anda/sem heñe jafnañ fylger/ helldur vil eg tala hier um̃ Deydingu Holldsens/ og Krossfestingu hins gamla Adams/sem byr i oss/ Sege mier þeir/ed Einuñe hafa keñt a hvad sætur ad DRotteñ er/ mun nockur Assverus i sijnu stoora Heimbode/ Esth. 1. Mun nockur Balsazar i øllu sijnu Ofmetnade / Dan. 5. Nockur Herodes i sijnum Hooru Danse/ Matth. 14. Nockur Benhadad i Nerbwdū sijnū/ 1. Reg. 20. Munu

Munu þeir/ sege eg/ una svo vel sijnum Hag / Svo sem Reitterwads Mans Sala i Jatningu Synda sinna fyrer Gude / Þegar Ande DRottens ber þeñe Vitne um̃ / ad hwn sie Guds Barn? Rom. 8. Alldrei hefur hiñ gamle Madureñ svo mikel Vm̃brot/ ad ecke sie þad Yndæle þeim sem i Guds Nerskrwda berst / Eph. 6. Ad sigra hañ/ og hañ gledst af Løgmale DRottens/ seger Pall/ Rom. 7. Jafnvel þoott hañ þiña þykest eiñ añad Løgmal i sijnum Limum/ sem Hertake hñ under Syndarennar Løgmal: Ad sofiu kuña hiner ad klædast Pelle og Purpura/og hafa kostulegt Bordhalld/ Luc. 16. Margur mun sa vera/er seger til Salar siñar/ þegar hañ hefur alls Nægter missjafnt wtvegadar / Et og Dreck Sala mijn/ þvi þu hefur til margra Ara safnad / Luc. 12. Eñ alldrei kañ þetta ad jafnast vid þa Madar Mola / er detta af þvi Himneska Borde ofañ a Footskor DRottens/ Matth. 15. Hvar vier Synduger Ormar skrijdum og mænum i Himeneñ/ epter hiñe eilijfu Hugsvølun / Er Guds Ande heiter oss fyrer Pals Muñ/ef vier berū Christi OK med Polenmæde. LÆRed Af MJer/ ÞVJad Eg Em HOOGvær Og Af HJARta LJTELatur. Hvar fyrer? Hier um̃ talar Postuleñ/ Heb. 5. Segiande: Þoott hañ Sonur Guds være/ þa hefur hñ lært Hlijdnena/af þvi/ sem hañ lided hefur. Seged mier nu/ þier sem erud Ætileidingar/og ecke Guds einka Syner/eins og hñ var/munud þier nockurn Tijma leggia þañ Kross a hiñ gamla Adam/ ad ecke hafe DRottens Kross vered honū þyngre/ sm̃ hñ bar a sijnū Lijkama/samlijkum Holldenu Syndeñe underorpnu/ þegar hañ var af øllum yfergefeñ / Og jafnvel af sijnum Himneska Fødur? Marc. 15. O hvilijk Mijnkun er nu þad/ad vier skylldum ei vilia vaka eina Stund med honū/til ad þim Saler vorar med Christelegre Ydran / og Deydingu vorra vondra Gyrnda / þar hañ hefur lofad oss sijns Anda Hugsvølun / nær vier svo giørum. TAKED A YDur MJtt OK/ seger DRottenn hier: Eñ hvad er Christi OK? Þad er allt þad / sem Meñ bera med Polenmæde / hvert helldur þad

kemur

kemur fra Gude sialfum/ svo sem eru Siwkdoomar/ Astvina-Misser/ Skade sa/ er vier meinum ad kome ad Hendingu / edur aflad þvilikt/ Ellegar hafi kemur fra Monnunum/ Svo sem er Orettur/Forsmaan/ Ofsookner / og þessháttar / Edur og ad þad er Straff vorra eigen Synda/er vier sialfer a oss leggium i Yoranarenar Verke/ z barattune moote Holldsens Gyrndum. Allt er þad Christi Ok/ eþ Men bera þad svo sem hafi skipad hefur / þui eckert af þessu kan ad henda oss / sem vier ecke forþienad hofum med Syndenne / edur afiadhvert fyrer hans Tilhlutan edur Tillatseme / En eþ vier kostum Okenu i burt med Oleiþelegu Hatte/ Jer.2. þa verdur þad Heilsusama DRottens Ok ad Dio fulsens Oke/Eþ vier erum Oþolenmooder i Siwkdoomenum/ Moglunarsamer i Wibyrgdenne / eþ vier giolldum eirn Orett med odru/ og batum vorn Skada med Skada Naungans/ þegar vier þan Veg breytum/ þa hofum vier eingrar Endurnaringar/ eingrar Hugsvolunar ad vænta Salum vorum / þa hverfur Sætleike sa/ er Christi Oke/og hans Byrde fylger / Ja / Hvad meira er / ad þad Ok / sem oss verdur uppalagt fyrer Heimsku vorrar og Synda saker/ þad kunnu vier ad giora ad DRottens Oke / Eþ vier berum þad med Hoogværd og Christelegre Þolenmæde. David er oss til Epterdæmes hier J: Eg Ekast ei um/ad þad hefur geinged honum til Hiarta / þegar hann var reken fra Ryke af sijnu eigen Syne/2.Sam.15. Og þegar Mord-Eingellen sloo Foolked sokum hans Yferstoonar/2.Sam.24. Þo Vann hann svo miked a med sarre Ydran og Audmykt Hiarta sijns / ad Gud leidde hann heim aptur/ med Sæmd og Heidre/ 2.Sam. 19. Og linade Plagurnar/ 2.Sam. 24. Latum oss þesse Dæme til Christum leida / Audmykium oss under Wolldugа Guds Hond/ 1. Pet. 5. Vegenn vitum vier/sporum ecke ad ganga hm/tokum a oss hid sæta Ok Christi/ og skiootum oss ecke undan hans Byrde/svo vier meigum finna eilijfa Endurnæring / eilijfa Hugsvolun Salu vorn/og ganga inn til hans Nyllldar. Þad veite oss goodur Gud/ Fyrer sijns Sonar Blessada Forþienustu / AMEN.

Tuttugasta

# Tuttugasta og Siøunda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled / Matth. 17. Cap.

Y þeim Tijma. Og Sex Døgum þar epter/ took JEsus med sier Petrum og Jacobum/ og Johañem Brooдur hñs/ og hafde þa afsijdes uppa hatt Fiall/ og ummyndadest fyr er þeim. Og hans Asiona skein sem Sool / Eñ hans Klæde urdu so biørt sem Lioos. Og sia/ ad þeim byrtust þeir Moyses og Elias/ og toludu vid hañ. Eñ Petur ansade og sagde til JEsu: HErra / hier er oss gott ad vera. Ef þu villt þa vilium vier giøra hier þriaar Tialldbwder/ þier Eina/ Moysi Eina/ og Eliæ Eina. Og þa hañ var þetta ad tala/ Sia/ ad biart Sky umskygde þa. Og sia/ ad Rødden wr Skyenu sagde: Þesse er Sonur miñ Elskulegur / ad hvørium mier Velþocknast / Hlijded þier honum. Og er Lærisveinarner heyrdu þad / Fiellu þeir fram a sijnar Asiioner / og urdu miøg hrædder. Eñ JEsus gieck til þeirra/ Took a þeim/ og sagde: Standed upp / og vered ei hrædder. Eñ þa þeir litu upp/ sau þeir Aungvañ nema JEsum alleinasta. Og er þeir geingu ofañ af Fiallenu/ baud JEsus þeim/ og sagde. Þier skulud aungvum þessa Sijn seigia/ Þar til ad Mañsins Son er upp aftur risen fra Daudum.

## Exordium.

Eirra Guder eru Fiallaña Guder/ Søgdu fordum Þienarar Benhadads Syrlands Konungs/ er þeir voru eilter af Israels Mønum: Gremlegt er til þess ad vita / hvernen Satan hefur blindad Mañeskiuna/ ad Skynseme Hollдsins smijdar sier svo dærlega Þanka um Guds Nattúru/ svo sem ad hans Rijke sie ecke eins rijkt i ollum Attum hans Velldis/ Eñ hvernig sem þvi er nu vared/ þa sia Meñ þo/ ad Gud hefur sig hvad mest Opeñberad Mañkynenu a Fiollunum: A Fiallenu Sina wtgaf hañ sitt Løgmaal /

 Exod.

Exod. 20. A þvi sama Fialle talade hñ vid Eliam i Hellrenum: A Fiallenu Moria talade Guds Sonur vid Abraham / er hañ villde hafa Offrad Gude Syne sijnū Isaac/ Gen. 22. A þvi Fialle stood Jerusalems Mustere/ hvar Gud hafde siñ Elld og siñ Ofn / Esa: 31. Og mun synast/ ad Gud hafe Teiknad med þessu/ad hñ være hiñ allra Næste/ og bygge i Hædunum/ svo ad Dioffulleñ hefur og Apad epter þessare Guds Dyrkan / eins og i mørgu ødru / og lated sier a Hædum þioona: Þad vitna þær Hædernar medal Guds Foolks/er hñ svo miøg til Reide reittu/a hvertum hñ seger/ad ei sieu nema Preller. Eñ i þessa Dags Evangelio heyrum vier hina allra Dyrdlegustu og Huggunarsømustu Openberan/ þar hiñ Eingetne Sonur Fødurs sins/ Iklæddur voru Hollde/ Vmmyndadest synelega fyrer Læresveinum um a Fiallenu Helga/ hvert ed hiner Gømlu Læresedur Christneñar hafa meint ad vera Fialled Tabor i Galilæa. Af Fiallenu Nebo i Moabs Lande synde DRotteñ Moysi alla Fegurd og Giæde Canaanslands/ Eñ a þessu Fialle hefur hñ synt Læresveinunum/og øllum þeim er a Soneñ trwa fyrer þeirra Ord/ iñ i þad Himneska Canaan/ er hañ nefner sijna Hoñllo/ Heb. 3. Og til frekara Vitnes þar um / þa vil eg kvedia ydur/Guds Børn/til ad ganga Afsijdes med Christo og hañs Læresveinum/til ad Hugleida þessa Dyrdlegu Openberan/ I hverre Tvent er ad athuga / Sem er. 1. Sialfsa Forklarunena. 2. Vottana sem Nælæger voru.

DRotteñ/vertu i Verke med oss/og Nad þijns Anda/fyrer IEsu Forþienustu/ A M E N.

# Vtleggingeñ.

HANN VMMYNDadest FYrer ÞEim/seger Texteñ: Ecke er þad svo ad skilia/ ad hañs Mañdoomleg Nattura hafe um̄breytst a nockurn Hatt/helldur forklaradest hun/ Hin Dyrdlega Guddoomsins Fylling / sem i honum bioo / skaut wt Geislum sijnum i Mañlegu Hollde/svo þeit kyñu ad sia hñs Dyrd/ Dyrd svo sem Ein-

getens

getens Sonar af Fodurnum / Nañ afklædest / ſvo ad ſegia/ Þioons Myndeñe uñ Stundarſaker/ eñ ecke Natturuñe. Tak þad til Nugleidingar af þeſſu/Guds Barn/ ad ædur eñ þu matt ſamlykur verda þeſſare Dyrdlegu Mynd þyns Frelſara/ ſem hier umgetur/ þa byriar þier ad umumyndaſt epter hañs Mynd/ ſem þig ſkapad hefur/þad er/ Endurnyaſt i þynu Nugſkote/þvi ſvo ſeger Frelſareñ/nema þier ummyndeſt/ og gioreſt ſvo ſem þetta Ungbarn/ þa kuñed þier ecke ad iñganga i Guds Ryke. Matthæus ſkyrer fra þvi i Textanum/ hvilykt ad vered hafe Forklæran þeſſe / Þar hañ ſeger / Ad NAñs ASJæna NAfe SKJned Sem Sool / Og ſkulum vier þo ecke ætla/ ad Sool Rettlæteſins / Mal. 4. Nafe þo ecke ollu fegur ſkyned / eñ þeſſe er a Himnenum lioomar / Þvi heñar Byrte kuñum vier aller ad ſtandaſt/ eñ þegar Læreſveinuñ gafſt Syn þeſſe en mikla/þa ſkrifar Marcus/ Cap. 9. Ad þeir hafe vorded Otta ſlegner / ſvo ad Petur viſſe ecke hvad hñ talade/ſvo ſem bæde hañ og Lucas Cap. 9. ſkrifa/ helldur tekur Gudſpiallamadureñ Lyking af Sooluñe/ þvi hañ hafde eckert biartara ad jafna vid/ ſem Daudlegum ſkiliaſt kuñe/og ei ſkulū vier helldur meina þetta hafe vered ſu Dyrd/er Guds Sonur ætte hia ſynum Fodur / ædur eñ Grundvollur Verallдарeñar var lagdur/ Þvi jafnvel Utvalder ſkulu ſkyna eins z Sool i Ryke ſyns Fodur/ Matth. 13. Eñ hvilyk ſu Byrte mune vera/ er þar af audſæt/ad vier ſkulum verda Einglunū jafner/hvertra Siooner ad Daudleger Meñ þo valla ſtadeſt fa/ þvi ſagde Manoha/ Vid munum ſañlega deyia / þvi vid hofum ſied Eingel DRottens / Og ſkulum vier þo vita/ ad Dyrd og Hæligн Guds Sonar yfergeingur ſvo miked Einglañа Dyrd/ſm hañ hefur þeim Ædra Nafn odlaſt. Framar ſeger Texteñ / Ad Nañs Klæde Nafe Vorded Svo Biort Sem Lioos: Þegar Moyſes kom ofañ af Fiallenu Sina med Logmaled / Þa ſkrifar Paulus / ad hañs Aſiæna hafe vered ſvo biort / ad Jſraels Syner hafe ei matt lyta i gegn heñe / Alleina af þvi/ ad hañ hafde vid Gud talad / og þo feck

Moyses hana byrgt med Skyluñe / er hañ heingde fyrer sitt Andlit/ Eñ þetta yfergnæfer / hier sa ecke Klædeñ iñelukt þañ skiæra Gud-doomsins Fegurdar Liooma/sm̃ bioo i Christi forklarudu Hollde/ helld-ur skein hun i giegnum/ svo þau urdu fogur eins og Lioos. O miñ HErra JEsu/ er þetta sw Mynd/sem ad hieck a Krossenum/ þegar þu giordest Bolvan fyrer mijnar Synder? sw sem Esajas um̃ talar i 53. Capitula/segiande: Þar er eingeñ Mynd edur Fegurd a honum/ og þegar vier lijtum hañ/ er þar eckert Alit/ sem vier girnumst/ hañ er Forsmadur og Mafia Audvirdelegastur/ hñ er plagadur af Mein-um/ og Krankdæmenu alvanur / og svo sem eiñ Madur er byrger sitt Andlit fyrer oss/svo Forackranlegur/ad vier virdū hañ Einkes? O þu Saklausa Guds Lamb/hvijlijk voru nu þsse Umskipte/O Rosteñ miñ? Hvad vorum vier Synduger Ormar/ad þu Lioome Fodursins Dyrdar skylldet svo bera vor Krankdæme? Hvad þrijste þier til þss/miñ Lausn-are/ad þu skylldet breyta þssare Dyrd i þa herfelegu Asian/er Spa-madureñ talar um̃? Eckert añad eñ þijn Guddoomleg Elska/þijn diw þu Myskunar Ydur/i hverium þu vilvadet vor Uppruñeñ af Nædum. Eñ þu Guds Barn/ sem heyrer þeña Dyrdlega Atburd / Tak þier hina messu Huggun af honum/ þegar Guds Fodurleg Giæska virder þig med sijns Sonar Krosse/ ad svo Dyrdlegur sem hañ giordest hier fyrer Augum Lærefveinañna / svo Vegsamlegur og ollu Vegsamlegre munsu verda/nær þu iñgeingur i þijns Herra Fognud/ef þu tekur hñs Ok a þig/og fylger honum epter/þvi þessa hñs Dyrd sau þr Dauð-legum Augum/ svo sem bæde Petur og Johañes votta/ Eñ þad hef-ur ecke Auga sied / og ecke Eyra heyrt / og ecke hefur þad i nockurs Mañs Hug edur Hiarta komed / hvad Gud hefur þeim tilbwed sem hañ elska: Eñ Elskañ til hañs sieft alldrei betur eñ i Mootlætenu/ þar reyneft hun svo sem Gulled i Ofnenum / þar er sa Leikvollureñ/ hvar ed hinar Andlegu Kempur eiga ad sijna Frækleik siñ / þar er Skeid-Flotureñ/er aller þr eiga ad hlaupa med Þale/sm̃ vilia Hnoss

ed

ed ødlast. Lucas einn hefur sagt oss þad/ hvert ad vered hafe Jñtak þess Samtals/er þeir Moyses og Elias attu vid DRottenn a Fiallenu Helga/sem var umm þa Vitfør/er hann skyllde fullkomna i Jerusalem/ þad er sw Burtfør til Fødursins/ er hann nefner him Johannem i 16. Capitula/i þeirre Hiartnæmu Predikun/er hn̄ talade fyrer Læresveinunum under sijna Pijslar-Gaungu/þa ed hn̄ fullkomnade og batt fullann Enda a þad/sem hanns Fader hafde honum umboded. Ecke hefur þesse Sijn edur þetta Samtal sked fyrer Christi Skulld / þvi sialfur visse hann allt þad er yfer hann atte ad koma/ Sialfur þeckte hann og Guddoomsins Hatign og Vegsemd/sem ad i honum bioo/helldur Postulanna vegna / hverier ed sijdann mattu þola svo miklar Hørmungar / Fiotur/ Hwdstrokur/ Ofsookner/ Vmmsatur/ja/ Sijta og Grata þegar Heimurenn fagnade/og þad fyrer Christi Nafns Saker/ svo ad alltijd nær þeir i Hørmungunum minntust a þessa Dijrdlegu Openberan/skylldu þeir hafa þad þeir kynnu ad Endurnæra Hiarta sitt med / sem var ein full Vissa umm þvilijka Dijrd/ er þeir sau nu fyrer Augum sier/og þvi er ecke ad undra/ þoott ad þeir og fra Lagsmenn geingu glader wt fra Radenu / nær þeir Hwdstrykter voru / Ja / ecke þoott ad Ste. Pall være vel til Frids i Ofsooknunum/J Angistenne/J Naudunum/þar hn̄ hefur ecke einasta þessa Sijn heyrt/helldur og var sialfur i hinn þridia Himen uppnumenn. Petur hafde fyrer skømmu spurt DRottenn ad/hvad þeir skylldu i Laun hafa/sem ad yfergafu alla Hlute/og fylgdu honum epter / Enn DRottenn sijner honum hier a Fiallenu/ ad svo miklu Leite sem hann sia kunne/i þessu Daudlega Hollde/hvers hn̄ atte Von fyrer sijna Þioonustu/og er þad Mala sannast/Petre þoockte svo miked til þessa koma / Jafnvel þoott ecke være þad meira him hinne Eilijfu Dijrd / Helldur enn Rikte Salomonis fyrer Drottningunne af Arabia/ honum þoockte svo miked til þess koma/ sege eg/ ad hann sagde/ HJer Er Oss GUdt Ad VEra: Hann var fæddur i Judæa / einu Lande/ sem er Paradijs af Verolldenne/ hann hafde vijda vered med Christo/

 bæde

bæde þar og i Galilæa/ hañ hafde sied Jerusalems Mustere/ og hina kostulegu Guds Þioonustu þar iñe / Eñ ollu gleymde hañ þvi sem til Baka var/ hier þoockte hønū alleina Gott ad vera. O hvørsu munu þeir þa gleyma ollu Oplæte Veralldar / ellu Epterlæte og Fagnade i Heimenum/ Er sitia Lambsins Brwdkaup i Himnenum ? Ad Vÿsu var Sÿn þesse mikel / er Postulunum gaf / og sæla mæ þa kalla af hefie/ eñ þo er þeim ei miña veitt/ sem DRotteñ Auglÿser sig i Hiart-anu/ Þvi sæler eru þeir sem ei sia og trwa þo/ sagde Lausnareñ Ord-um vid Thomas / Þad sie eg a svo morgum Þusundum Þÿslarvotta DRottens/ um̄ hveria þad satt kveded er sem Esajas spaer/ Cap. 24. Ad Þr prÿssudu DRotteñ midt i Elldenum. Petur var vidstaddur Þÿsa Openberun / Hañ heyrde Moysen og Eliam tala um̄ Fullkomnan DRottens Vtfarar / Og þar ad auke heyrde hañ Fodursins Raust/ þo gleymde þesse Guds Vinur ollu þessu skomum Tÿma þar epter/ i Biskups Hølleñe / ecke varde þesse Vñmyndan DRottens leinge hiæ hønum / Eñ þegar Christur var i hønum til fulls myndadur / Svo sem Paulus ad Orde kemst/ þa munde hñ fyrr hafa þolad hinar skelfe legustu Þÿsler Veralldar / eñ ad falla fræ Christo / og gafst Raun þesse optlega siðañ: Og þetta er nu sw Sioon a JEsu Christo/ er vier eigum ad kosta Kapps um̄ ad næ/ a allre vorre Reisu fræ Vogg-uñe til Grafarenar: Þad er þad heilaga Fiall/ er vier eigū ad klifrast uppæ/ medañ vier lifū. Sæ sem þañig hefur komed Auga a Christ-um/ hañ kallar DRotteñ fyrer sitt Hlutskipte/ þoott ad Sæl og Lÿf Vanmegnest / og nær hañ Gud siñ hefur/ þa skeiter hañ hverke um̄ Himen nie Jørd. Eñ svo sem ad þetta er eitt miked Hlutskipte/ hver sem þvi nær/ Jæ/ svo miked/ ad Himen og Jørd meiga i eingañ Sam-jøfnud koma / Svo skal og miked til þess viña / Ef vier vilium verda niootande Arfskiptis Heilagra i Lioosenu/ Col. 1. Ef vier viliū þeckia ast Gude i Lioose lifande Mañа/ Psalm. 56. Þa byrtar oss ad skrÿdast Hoÿta-Vodum/ ecke siðr eñ Þr i Fyrndeñe/ sm̄ Skÿrn z Christne taka villdu/

villdu/ þad er/ ad vier Ikłædumst Nerklæde Lioßsins/ ad vier Ikłædumst einum nyiū Mañe/ ad vier Ikłædumst Guds Nerskrwda/ þad er/ i einu Orde ad segia/ mz Pals Ordū/ Col. 3. ad vier Ikłædumst svo s Utvalď Guds heilager z elskuleger Hiartgrooeñe Myskunseme/ Goodgyrneñe/ Lijtelætenu/ Hoogværdeñe/ Polenmædeñe. Eg veit þ mꝏ þykia Undar lega til Ords teked/ ad Postuleñ temur sier þeña Ordshætt/ ad Ikłæd ast Dygdunum/ eñ valla kañ þo nockur betre ad þiñast: An Klædaña getum vier ecke lifad/ þau eru þad sem veria oß Froste og Kulda/ Soo kuñū vier ecke helldur ad lifa Andlegu Lijfe fyrer utañ þeña Sakley- sesins Skrwda: Hañ varnar oß vid Helvijtis Bruna. Klædnadur DRottens vard fagur og Leiptrande af þvi/ ad Guddoomsins Byrte/ sem i hñs Hollde bioo/ hun skein i gegnum þau/ eins og Sooleñ Glere ed/ Svo eigum vier ad læka þad sim i vorum Lijfernis Hættū/ Ordum og Athøfnum/ ad Gud bwe i oß fyrer Trwna/ þad bydur Frelsareñ Lærisveinunum/ Matth. 5. med þeßum Ordū: Soo lyse ydar Lioos fyrer Mꝏñum/ ad þeir siꝏe ydar Goodverk/ og dijrke ydar Fødur/ sem a Himnum er: Eñ fyrer þvi/ ad Daglega slettest uppꝏ vort Skijrn- ar-Klæde/ a medañ vier gøngum i gegnum Foreð Veralldar þeßarar/ þa mꝏ þad Daglega þveged verda. Marcus skrifar um̄ Klædnad DRottens Cap. 9. Ad hañ hafe svo Biartur vered/ ad eingeñ þvotta Madur a Iordu kuñe þvilijkt ad giøra: Og sama er ad segia um̄ vort Brwdkaups-Klæde/ þad kañ eingeñ svo hreint ad giøra a Iordu/ ad i Guds Augum byrtast mege: þad mꝏ um̄ oß alla jꝏta/ sem DRott- eñ seger um̄ sitt Foolk/ Jer. 2. þoott þu þvoer þig i Sallpetre/ og tafner þier mikille Sꝏpu/ þa ertu samt Ohreiñ fyrer mier: Hañ eiñ/ hañ eiñ getur þau ad fullu hreinsad/ sem er eins og Kopar-Smidsins Elldur/ og eins og Sꝏpa þvotta Mañа/ Mal. 3. þad er þitt dijre mæta Blood / miñ Frelsare / I hvertu ad aller Heilager hafa þveged siñ Skrwda/ Apoc. 7. Svo kañtu og/ DRotteñ miñ/ ad giøra jafn- vel Synder mijnar hvijtar eins og Snioo / þoott þær sieu raudar sem

Blood

Blood/og Vllhvijtar/ þoott þær Purpura raudar sieu/ Esa. 1. Ja/ eg em þess fullvruggur/ ad nær þu breider þiñ Lioomande Klædaþalld wt yþer mijn saurug Totur/ þa mune þeirra ei giæta/ Guddoomsins Fyll ing/ sem i þier bioo Lijkamlega/ Nun skein i giegnum þiñ Klædnad a Fiallenu Helga / Eñ Sorte miñar Illsku mun alldrei geta bronst i gegnum þessa Byrteiñ i Augu þijns Himneska Fødur: Þessu full- treyste eg/ DRotteñ miñ / þvi eg veit / ad þu ert komeñ til ad leita ad þvi sem tapad er / og ad kalla Synduga / og ecke Rettlæta til Ydrun- ar/ Þier sie Loþ/ Æra/ Magt og Dijrd/ ad Eilijþu/ Amen.

J Muñe Tveggia edur Þriggia skulu øll Ord standa / Sagde DRotteñ i Log, Book siñe Fordum: Eñ um þetta Þijng mæ eg seg- ia þad/ er Johannes seger i hñs fyrsta Pistils Fimta Capitula: Þrijr eru þeir sem vitna a Himne/ og þrijr eru þeir sem vitna a Jordu. Hier eru þrijr Vottar Jardneskir/ og adrer þrijr Himneskir. Eg vil tala fyrst um þa Jardnesku/ þvi Texteñ getur fyrr um þa: Þad voru Pet- rus / Jacobus og Johañes / Þesser voru einger Smælingiar i Guds Hwse/ Jaþnvel þoott þeir være halldner Aþrak og Hreinsunar Foorn him Verølldeñe. Petur var sæ ed fyrstur allra Postulaña þeckte/ ad JEsus være Christur Sonur Guds liþanda/ Matth. 16. Hañ var sæ/ ed DRotteñ fyrstum aþhendte Lykla Himnarijkis/ til ad leysa og binda/ ecke þad/ ad Petur aþhendte þa hinum Postulunum wtaþ sier/ helldur giørde DRotteñ þad sialþur sijdañ: Hañ lagde Lijþed oþañ æ sijna Medkeñingu um JEsum / Þvi jaþnvel þoott ecke haþe Meñ svo vissar Søgur um hañs Lijþlaat / Þa keñer Johannes oss þad/ ad Lausnareñ haþe spæd honum þvi / Ad hañ munde Gud med sijnum Dauda dijrka. Jacob var sæ/ er fyrstur allra aþ þeim Tolþ liet Lijþ sitt fyrer Vitnisburdeñ JEsu / og underskriþade hañ med sijnu Sak- lausa Bloode. Johañes var sæ/ ed sæ fyrer framañ DRotteñ um Kvølldmaaltijdena/ honum auglijste hañ Svikarañ/ hañ er sæ Lære- sveiñ / um hvern skriþad stendur / ad JEsus haþe hañ Elskad/ Hañ

heþur

heþur og Greinelegast aþ øllum Guds piallamønnunum talad um Persoonu Frelsarans / hønum auglyste DRotten þa miklu Hlute / er ske skyldu a epterfylgiande Tijmum / Svo sem liooft er aþ hans Openberunum / Hann lijfde og leingst allra Postulanna / til ad mootstanda þeim Ebioni og Cerintho / er neitudu Guddoome vors Frelsara / Og þess vegna er þad aþ Gudlegre Forsioon sked / ad hann feinge hans Nætign Augum ad lijta i þessum Stad / svo hann þess betur kynne þar um ad vitna. Mooder þeirra Jacobs og hun beidde Frelsarann um / ad annar Sona sinna mætte sitia hønum a hægra Veg / enn annar a vinstre / Drott enn svarade henne / Þier vited ei hvers þier biided: Enn þo synest niter / ad hann Blessadur haþe ad nockru leite orded vid Boon hennar i þessum Stad / Þar hann took þa framar ødrum med Petre / til ad syna þeim svo sem Aleingdar enn i þa Dyrd / sem hann a hia sijnum Himneska Fodur. Enn aþ þessare veglegu Sioon haþa þesser Guds Menn lært / þar þeir valla gætu stadest hana / ad ei munde þeim hendt i þessu Daudlega Hollde ad sitia hønum a hægre edur Vinstre Hlid i Dyrd Himnanna / og þvi spørudu þeir ecke sijna Daudlega Lijkame sijdan fyrer hans Skulld / þegar þeir vaxner voru epter fullkomnum Maler Christi Alldurs / svo þeir med Paulo / Phil. 3. Næ kynnu i Uppreisu hinna Daudu / og Hnoss enu þeirrar Køllunar / sem þar uppe er i JEsu Christo. Enn vier sem nu heyrt høþum Vitne þeirra um Forklæran DRottens / og vitum ad þeir inngeingner eru i Dyrd sijns Herra / Vier skulum leggia allann Hug a / ad vera eins lynder og þeir / ad vier høllldum alla Hlute Dreck ad vera / og jaþnvel siælþt Lijþed / svo vier ævinnum Christum / Phil. 3. Þvi hver sem ad hatar Sælu sijna i þessum Heime / hann mun vardveita hana til eilijfs Lijfs / Joh. 12. Og þesser eru nu hiner Jardnesku Vottar ad Stoormerke þessu / sem teked haþa vid Vitne fra Himnesku / Um hveria eg heþe hier epter nockud ad tala.

DRotten sagde Fordum under sijna Pijnu / Joh. 12. Fader / Vegsama þitt Naþn / og Rausten aþ Himne svarade hønum / Eg heþe Veg

 samad /

samad/ og eg skal aptur Vegsama/ Þa sagde hañ vid Læresveinana; Þesse Raust skede ecke vegna mijn/ helldur ydar vegna. Svo má eg og segia um̃ þa Himnesku Votta/ sem Textenn um̃getur/ ad ei byrtust þeir DRottine fyrer hañs Skulld/ helldur þeirra sem med hönũ voru/ Ja/ vegna allra þeirra / sem epter þeim heyra mundu þeña Tilburd. Vottarner eru Þrijr ap Himnum/ Moyses / Elias/og siálfs Fodurs sins Raust/ er vitnade ap Skyenu. Moyses var eiñ trwr Rádsmadur i ollu Guds Hwse / Hañ valde Gud til ad wtleida sitt Foolk ap Ægyptalande / Hañ talade vid Gud i Horeb / Þegar Israel villde hapa sig uñdañ þegeñ ad heyra Raustena DRottens Guds sijns / Hañ medtook Logmaled ap hañs Hende / og talade vid hañ Optlega eins og Madur vid Mañ talar. Hvert Moyses hape vered hier med Sál og Lijkama / skal eg ecke margt um̃ tala / Þad er vijst / ad hañ Doo a Fiollunum Habarim / hvadañ Gud synde hönũ Landed Canaan/ og Gud groop hañ i Dalnum / seger Ritningeñ / Devt. 34. Þo er lijklegt / ad Moyses hape hier allur vered / Þvi um̃ Eliam er þad vijst/ ad hañ foor med Ønd og Lijkama til Himens/ Eñ einginn Mun giorer Mattheus edur hiner Gudspiallamennerner þeirra i sijnu Rite um̃ þessa Openberan. Nockrer færa til ad styrkia þessa Meiningu/ þad sem stendur i Judas Pistle / v. 9. Ad Michael Hofud-Eingell hope þrættad vid Satan um̃ Lijkama Moysis / Svo sem ad villde Andskoteñ hapa feinged Valld hañs/ Eñ Gud hape hañ uppnumed/ Og ad Vijsu lijtur Petur til þeirrar Sogu/ er þar skripud stendur/ J sijns Sijdara Pistils Ødrum Capitula: Eñ hverneñ sem þessu er vared / Þa veit eg/ ad hañ sem Vppvakte Son Eckiuñar ap Sarepta/ og hiñar Sunamisku/ Hañ sem Lazarum leidde wt ap Grøpeñe/ Hañ sem uppreiste Dootttur Jairi / Hañ sem liet Marga Framlidna ganga wr Grøpunũ i Christi Vpprisu/ Hönum var ecke um̃ Megn / ad láta Moysen koma til þessarar Nætkdar a Fiallenu Helga med Ønd og Lijkama / Og þesse var nu Ein Aññar Himneskra Votta ap Mønum.

Mofium. Eñ Hiñ var ad ſijnu Leite eingu miñe/ Elias/ hver med ollum Rette mæ nefnaſt hiñ Ypparſte af Spamofiunum / Hañ var hiñ Meſte Vandlætare vegna Guds Nafns / Hañ liet ſlatra Jeſſabels Spamofium vid Lækeñ Kiſchon / Honum ſende Gud Elld af Himne yfer þa Tvæña Fimtiju Achabs Sendemeñ / Hañ fieck med Bæn af Gude Dogg af Himnenũ/ þa ecke hafde rignt i heil Þriu Ar/ Hañ foor med Elldlegum Heſtum og Vognum til Himna / Hañ talade vid Gud a Fiallenu Horeb / Eins og Moyſes/ og bæder foſtudu þeir i 40. Daga og 40. Nætur / eins og Chriſtur i Eydemorkeñe / Beggia þeirra getur og Malachias i Þridia Capitula ſiñar Mæla-Bookar/under eins og hañ Endar hid Gamla Teſtament. Slijka Votta byriade Guds Syne ad hafa til Dyrdar ſiñar / er hañ Forklaradeſt: Og ſkulum vier vita/ ad Gud gioerer eckert Forgefens/ aukhelldur ſvo mikla Hlute/ ſem þeſſe var/ Vill var og Þorf a þvi/ Su Tijd var nærre komeñ / ad Gud munde ſla Hyrdereñ / og ad Sauder Hiardareñar mundu ſundur tviſtraſt / Eñ hverſu ad Læreſveinarner hafe vered bæner under þa Ogn/ þad ſijna oſſ Gudſpialls Sogurnar. Ad Sofiu hafde Petur lyſt þvi ſkomu ædur/ Matth. 16. Ad JEſus være Chriſtur Sonur Guds lifanda/ og kallade Frelſareñ hañ ſælañ þar fyrer / Þvi Holld og Blood hefde honum þad ecke Openberad / helldur Ande ſijns Fodurs / Eñ þo took Hollded ſvo ad Ræda ſkomu þar epter / Er JEſus talade um̃ ſijna Pijnu / ad Petur atalde hañ/ og ſagde: Spara ſialfañ þig/ad ei verde þier þetta: Ja/ þegar hañ heirt hafde/ad Moyſes og Elias toludu vid DRotteñ um̃ hñs Skiddurſtu Vtfor fra Jeruſalem/ þa var þo Einfelldnen ſvo rijk i Holldenu/ad hñ ſagde: VJer VJLlu GJora HJer ÞRJar TJALLD Bwder/ ÞJer EJna/ Moyſi EJna/ Og Eliæ EJna/ Og þoott hañ hefde Mæl fyrer hinum Poſtulunum / þa er audvitad / ad þeir hafa eins fækiæner vered. Hier mæ nu ſegia þad ſama um̃ þeña Guds

 Aſt-

Ast=Vin/ sem Paulus um̃ sig seger: Þegar eg var Barn / giørda eg sem Barn / og eg talade sem Barn: Petur var eñ nu ecke fullvaxeñ i Christendoomenum / og þvi talade hañ Bernsklega. O þu Guds Madur / Munde hañ nockud þurþa Tialldbwdar vid/ hvers Asiana ad skein sem Sool/ og hañs Klæde voru biort eins og Lioos? Munde hañ ætla sier ad eiga langa Dvol a þssu Fialle/ sem ædur sagt hafde/ ad hañ munde Lijþlateñ verda i Jerusalem / Hvad þu og heyrder / Guds Vinur/ af þessum Tveimur Himnesku Vottum? Var þesse Openberan til þess giør / ad hun skyllde leinge vara / og ei miklu helldur til ad vera Forsmeckur hiñar eilijfu Dyrdar? Þvi skyllde Moysi og Eliæ giora Tialldbwd / eins og ad ei være i JEsu einum Sælañ full? Rett hafa þeir nu Marcus og Lucas skrifad um̃ þetta Fafræde Peturs / ad hañ hafe ecke vitad hvad hañ sagde / kañ ske þvi / ad Felmtur var yfer þa komeñ / Eñ i þvi mæ marka Elsku þa og Traust / er hañ hafde a DRottne / ad hañ giører ei Raad fyrer neiñe Tialldbwd handa sier edur sijnum Lagsmøñum / þvi hañ hefur vered fulltrwa þar um̃/ ad þar sem hañs HErra være/ þar mundu og þeir verda. Svo skulum vier og lynder vera/ christner Meñ/ þegar vier erum visser um̃ Christs Vinattu / þa verum ecke Hugsiwker fyrer Lijfe þessu. Hvar kuñum vier svo ad vera hiæ JEsu / ad oss illa lijde? Hvar meigum vier svo vera fyrer utañ hañ / ad oss vel lijde? Vorpum þvi allre vorre Ahyggiu uppa DRotteñ / hañ mun þvi vel til Vegar koma. Og þesse var nu Veikleike Peturs og hiña Læresveinaña / Eñ til þess ad bwa þa under hina miklu Freisting / sem a epter fylgde / þa skede nu þesse Dyrdlega Jarteikn / og þoott þeim þelleſt miog svo Hugur / Þegar i Raunernar rak / þa er þad vijst / ad þeir hefdu miklu midur hafst sig/ hefde an hennar vered. Þesser voru þeir Þrijr Læresveinar/ er JEsus took Afsijdes med sier/a þeirre Natt er hañ forrædeñ var / þegar Kvaleñ hoofst. Gud Nade oss

Aumig

Auma og Synduga / Vier getum hvorke þolad Heill nie Kallt med JEsu / Þessa Dyrdlegu Syn gátu þeir valla stadest / eñ i Kvølenie svæþu þeir/ þa yfergæþu þeir hañ aller. Eñ Þacker sieu þier / hin Guddoomlega Speke / þu kañt ad midla þyrer oss bæde Medlæte og Mootlæte / epter þvi sem þu veitst ad med mañenum hyr: J þiñe Dyrdlegu Forklærun lietstu þyna Postula sia þyna Dyrd / ad svo miklu Leite / sem þeirra Daudleg Augu gátu þolad / eñ i Kvølenie leiþder þu þeim ad sofa uñ Nryd/ Þu gafst þeim og Fararleiþe þegar Hoopur Mañа var yþer þig komeñ/ svo þad mæ jæta / DRotteñ miñ / ad þu ert Eiñ Biskup þreistadur a allañ Hátt lyka sem vier / þo æn Syndar/ Þar fyrer kañ þu ad samþyna st Eymdum vorum.

Adur eñ eg skilst vid þetta Mál/ þa vil eg þar uñ tala/ad Postularner þecktu þa Moysen og Eliam / er þeir alldrei høfdu þo ádur sied: Lykleg er þeirra Saga/ er meina/ ad aþ Samtalenu hafe þeir mátt þeckia þa: Eñ hvorke Moyses nie Elias høfdu Greinuglegar spád uñ DRottens Pyster / helldur eñ David og hiner Spámeñerner/ sierdeiles Esajas/ nema hañ haþe þa vid Nafn kallad/ hvar uñ eckert er skrifad / Þvi helld eg þad lyklegra / og nærre þvi þyrer satt / ad Guds Ande haþe þeim þad Opeñberad i þad Siñ / Þvi hañ sem liet Samuel þeckia Saul Konung/ ádur eñ hañ hafde hañ sied/ Hañ sem liet Johañem þeckia siñ Herra i Moodur Lyþe/ Hañ gat og audvelldlega geþed Christi Læresveinum þessa Þeckingu á Moyse og Elia / og er þad ecke lytel Huggun fyrer christna Meñ / ad hver Eiñ mun þeckia ecke Einasta syna Ast-Vine i þeirre Himneskn Glede/ helldur og alla Vtvallda/ sem haþa yferuñed þyrer Lambsins Blood/ þra þeim Fyrsta til þess Sydarsta/ sem iñgeingur i Fognud syns Herra/ og med þeim Eilyflega glediast/ og Gude Loþsyngia a þessu Fagnadarens Lande/ og er nu þetta sagt uñ Moysis z Elia Vitne/ sem voru þra Himnum. Eñ hier kemur eiñ øllum meire/

 sem

sem uppfyller bæde Himen og Jørd / Pad er Fader DRottens vors JEsu Christi/sm̃ hier vitnar/ÞEsse Er SONur MJn ELSKU legur/HONum SKULud ÞJer HEyra. Rett er Gata Hieronymi Lærefodur/ad miñe Hyggiu/er hañ skrifar/ad Moyses og Elias hafe þess vegna vered svetpader i Skye þvi hinu biarta / ædur eñ Rausteñ kvad vid / ad ei skylldu Postularner meina / ad añarhver af þeim være sa/er til var talad: Og þegar þeir uppstoodu/ þa sau þeir eingañ nema JEsum: Þeir sau hañ alleina/ J hverium alleina er Saluhialpeñ: Þeir sau hañ alleina/sem er hiñ einaste Medalgang are mille Guds og Mañſa: Eñ hvilkur er nu Vitnisburdureñ? ÞEsse Er Miñ ELSKulegur SONur: JEsus stood hier i sinum fullum Mañdoome/fullum af Guddoomenū/og þo seger Fadereñ: ÞEsse Er MJñ ELSKUlegur SONur / Hvat af audsæt er / ad Christur er Guds Sonur/bæde epter Guddoomenum og Mañdoomenum. Miñ Frelsare/Þeir kolludu þig Tymburmañsins Son/Þiñ Fader seger: Þesse Er Miñ ELskulegur Sonur: Þeir søgdu ad þu giørder þig ad Gude / af þvi þu kallader Gud þiñ Fodur / Eñ Gud seger hier: ÞEsse Er Miñ Elskulegur SONur. Þeir søgdu: Vier vilium ecke læta þeña drottna yfer oss/ Eñ DRotteñ allra DRottna/ þiñ Fader/ er þeir kolludu siñ Gud/ eñ þecktu hañ þo ecke/Hañ seger: ÞEsse Er Miñ ELskulegur SONur / HONum SKulud ÞJer HEyra. Moyses hafde ædur fyrersagt / Devt. 18. Spamañ mun DRotteñ uppvekia ydur af Brædrum ydar / honum skulud þier heyra: Eñ sa hiñ same kom til siñar Eignar/ og hañs eigeñ þecktu hañ ecke. Moyses lærde og sialfur meira hier/helldur eñ hañ sialfur hafde fyrerspæd: Ad soñu vissade hañ til hañs i greindum Spadoome / Eñ hier sa hañ þad / sem bæde hañ og marger Spameñ gyrntust ad sia/og sau þad ecke. Abraham sa hañs Dag ad soñu/ Eñ ei sa hañ DRotteñ vorn Hollde Jklæddañ / eins og Moyses i

þessum

þessum Stad. Allra Sijdarst vil eg giæta þess Myskunar-Verks/ er DRottenn giørde a Læresveinunum / er þeim var lidid i Briost aþ þessare Dyrdar Sioon/ ad hann gieck ad þeim/ og snart þa/og sagde: STANDed VPP Og VERed ONRÆDDer. Hann sem alvanur var Dyrdenne / og þo i Mannlegu Holldе openberadur / hann kunne best ad vægia Holldsins Veikleika: þad syner hanns Manndoom/ ad hann snart þa / þad auglijser hanns Guddoom / ad hann reiste þa a Fætur med þessu Atvike. Minn HErra JEsu / eg veit ad þu ert ei sijdur Mattugur nu enn þa/ z eckert Manngreinar Alit er hia þier: Svo þegar vier þollum i Andleg Omeige / og høþum einganu Matt edur Frid i vorum Beinum vegna Syndanna/ þa gietur þu snorted oss / og reist oss a Fætur aptur/ Ja/ DRottenn/ þegar hid Sijdarsta Aungvitid lijdur yþer oss i Daudanum/ snert oss þa / minn Frelsare/ og seig til Salar vorrar: Statt upp og vert Ohrædd / og leid oss svo inn i þijna Dijrd / þar er oss gott ad vera/ þar villium vier Eilijþlega med þier bwa: Þier / Fødurnum og Heilogum Anda Oendanlegt Lof syngia / umm Allder Allda/ AMEN.